S. T. herra arkivsekretera og alþingismanni Jóni Sigurðssyni,

Með vinsemd og virðingu
frá höfundinum.

NOKKRAR

# TŒKIFŒRISRŒÐUR

EPTIR

P. PJETURSSON, Dr.



REYKJAVÍK, 1857.

Í PRENTSMIÐJU ÍSLANDS.

E. ÞÓRÐARSON.

YFIRLIT EFNISINS.

# Rœða,

## haldin á Synodus 1849.

### Bœn.

Ó drottinn! í þínu nafni á sjerhver athöfn að byrja; í þínum anda á sjerhvert verk að vinna; þá verður það blessað og gott; því að þinn andi er andi blessunarinnar, af því hann er andi eindrœgninnar og kærleikans, og það er ekkert verk svo lítilmótlegt í heimsins augum, að það verði ekki mikið og blessunarfullt, þegar það er unnið í þínum anda. Láttu oss, góði himneski faðir, vinna öll vor verk í þínum anda, í kristilegum anda. Láttu sama hugarfar búa í oss, og var í Jesú Kristi; láttu anda eindrœgninnar og kærleikans, anda ráðs og skilnings stjórna öllum vorum hugsunum, orðum og verkum. Æ! vjer getum ekki lýst þínum anda með orðum; en vjer finnum til þess innst í sálum vorum, að sjerhver góð og háleit hugsun, sjerhver helg og hjartanleg tilfinning, sjerhvert guðrœkilegt áform er innblástur þíns anda; að hann kveykir hið œðra líf í hjörtum þinna barna, og leiðir þau inn í þitt ríki, sem er friður og fögnuður í þínum anda. Amen.

*Texti: Postulanna gjörn.* 2, 44—47:

*En allir, sem trúaðir voru, hjeldu saman og höfðu allt sameiginlegt. Eignir sínar og góz seldu þeir, og úthlutuðu öllum þar af, eins og hver hafði þörf á. Daglega hjeldu*

*þeir sjer samhuga í musterinu, brutu brauð í heimahúsum, og neyttu fæðu sinnar með glaðværð og hjartans einfaldleik, lofuðu guð, og höfðu vinsæld af öllum lýð; en drottinn bætti daglega við söfnuðinn þeim, sem hólpnir urðu.*

Háttvirtu, elskuðu bræður! Sjerhverjum þeim, sem er fæddur og uppalinn innan vjebanda kristilegrar kirkju, og hefur fengið kristilega uppfræðingu, verður það þó einhvern tíma fyrir, ekki einungis að skyggnast inn í hjarta sjálfs sín og rannsaka sitt sálarástand, og bera það saman við guðs heilögu boð, heldur einnig að litast um og horfa í kring um sig, og gæta að ásigkomulagi þess kristilega fjelags, sem hann lifir í, til þess að vita, hver áhrif það megi hafa á sjálfan hann, á hugarfar hans og breytni, eða að hve miklu leyti hann megi láta sig bera af hinum sýnilega fjelagsstraumi kristilegrar kirkju, og hvar hann eigi að staðnæmast, til þess að missa ekki sjónar á lausnara sínum og hinu ósýnilega fjelagi hans barna. En þótt það sje eðlilegt, að sjerhver kristinn maður gjöri þetta eptir mæli þeirrar þekkingar, sem hann hefur öðlazt, þá er það þó engum skyldara en þeim, sem frelsarinn kallar salt jarðar og ljós heimsins, kennendum guðsorða, sem til þess eru sjer í lagi kjörnir og kallaðir, að vera verkamenn í drottins víngarði, og starfa að hinu helga ætlunarverki Krists kirkju: þeir verða jafnan að litast um og hyggja að, hvort

það er Krists andi, sem hreifir sjer, ekki einungis í þeirra verkahring, heldur og í hinu almenna fjelagslífi kirkjunnar, svo þeir því betur og innilegar geti samlagað sig og söfnuði sína þessu almenna fjelagslífi, þegar það er, eins og það á að vera, þegar það er í sannleika kristilegt, og dregur að sjer Krists anda, en geti aptur á mót staðið íklæddir guðs alvæpni, þegar fjelagslífið ekki er, eins og það á að vera, þegar það er ókristilegt og saurgað af spillingaranda tímans.

þegar vjer nú, hjartkæru vinir, lítum yfir ásigkomulag kristilegrar kirkju, eins og það er nú á dögum, þá hvarflar hugur vor yfir hinar liðnu aldir allt til upptaka kristninnar, og þegar vjer berum útlit kirkjunnar, eins og það er nú, saman við það, sem hún þá hafði, þá vaknar löngun hjá oss eptir að líkjast hinum fyrstu kristnu í því, að geta eins og þeir verið samhuga í musterinu, það er að skilja: samhuga í því, að vinna guðs verk, og út breiða hans ríki. En snúum þessari löngun í þá áminningu til sjálfra vor: verum samhuga í musterinu; höfum sameiginlegan áhuga á því, að vinna guðs verk, að efla og út breiða hans ríki.

það er að vísu einfaldleg lýsing á ásigkomulagi kristilegrar kirkju, eptir að hún var nýstofnuð, er vjer heyrðum í þeim texta úr Postulanna gjörningum, sem áðan var lesinn; en þó er þessi lýsing í einfaldleika sínum næsta fögur; hún sýnir, hvernig

hinir fyrstu kristnu lifðu samhuga, og neyttu guðs gáfna með þakklæti við guð og frómlunduðu hugarfari; hún sýnir, hvernig kærleikans og eindrægninnar andi batt þá í eitt fjelag með bandi friðarins, hvernig bróðurástin þrýsti þeim til, að út býta eignum sínum meðal þeirra þurfandi. Í brennandi trú og kærleika voru þeir sameinaðir honum, sem þá var þeim horfinn að sýnilegum návistum, en sem hjet, að vera með sínum trúuðu allt til enda veraldarinnar, og draga þá til sín. En ekki leið langt um, þangað til útlit kristilegrar kirkju fór að afmyndast, þangað til lyginnar og tvídrægninnar andi læddist inn í fjelag kristinna manna, og fór líka að draga þá til sín, sem ekki höfðu lifandi trú nje brennandi kærleika. Af brjefum postulanna og þeim innilegu áminningum og aðvörunum, sem þeir gefa, sjáum vjer, að þegar á þeirra dögum var farið að bóla á þeirri sundrungu og þeim flokkadráttum, sem síðan komu upp í Krists kirkju, jafnvel á meðal sjálfra þeirra, sem áttu að vera ljós heimsins, sem sjálfir áttu að vera gagnteknir af Krists anda, af kærleikans og eindrægninnar anda. Síðan hafa aldir runnið upp og aldir liðið, og borið sögu kristilegrar kirkju í skauti sínu, og sagan ber vitni um það, að sú áminning hefur aldrei verið óþörf: verið samhuga í verki drottins, og sagan ber vitni um það, að þar sem þessi áminning hefur verið rjett skilin og hreinskilin, þar hefur „drottinn verið samverkandi sínu orði, og daglega bætt

við söfnuðinn þeim, sem hólpnir urðu“. Að vísu hefur þessi áminning verið misskilin á stundum, og þeir hafa verið til, sem þóttust gjöra guði þægt verk, ef þeir væru samhuga í, að ofsækja hverjir aðra fyrir ólíkar trúarbragðameiningar, og ferill kirkjusögunnar er því miður litaður blóði þeirra, svo þúsundum skiptir, sem hafa orðið að láta lífið fyrir blindum trúarákafa samkristinna bræðra. Þá hafa menn verið samhuga í því verki, sem þeir eignuðu drottni, en sem þó ekki var hans verk, því að hans verk eru kærleikans verk; þeir hafa haft vandlæting guðs vegna, en hún hefur ekki verið skynsamleg, af því hún hefur ekki stjórnazt af anda kærleikans og friðarins. Að vísu hefur þessi áminning: „verið samhuga í drottins verki,“ einatt verið misskilningi undirorpin, og menn hafa haldið, að þeir ættu að þrýsta öðrum til, að hafa sömu meiningar og þeir, jafnvel í hinum minnst umvarðandi hlutum, sem þeir hjeldu að snertu trúarbrögðin; en þeir hafa gleymt því, að bókstafurinn deyðir, en andinn lífgar; þeir hafa gleymt hinu alþjóðlega eðli kristilegrar trúar, sem birtist í margbreyttum og ólíkum náðargáfum, og að eðli trúarinnar er æ hið sama, þegar hún að eins umfaðmar guð í Jesú Kristi, þótt hún að öðru leyti birtist í ýmislegum búningi; þeir hafa gleymt því, að trúin er kærleikur í eðli sínu, og að hún safnar öllum guðsbörnum saman í kærleikans anda. En þótt þessi áminning: „verið samhuga í drottins verki“,

hafi verið misskilningi undirorpin, eins og hver önnur guðleg áminning, af því menn gættu þess ekki, að það er ómögulegt, að vera samhuga til lengdar nema í huga guðs, það er að skilja: í hans anda, þá hefur þó aldrei verið vanþörf á þessari áminningu, því það hafa ávallt verið svo margir, jafnvel meðal kristinna manna, sem sjaldan eða aldrei hefur komið til hugar, að vinna drottins verk, að efla og út breiða hans ríki, af því þeir hafa verið háðir myrkranna verkum og heimsins þjónustu; en það er guðs verk, að niður brjóta djöfulsins verk, og þetta verk eiga allir verkamenn drottins jafnan að vinna. En hafi þessi áminning aldrei verið óþörf á hinum umliðna tímanum, þá mun hún ekki heldur vera það á vorum dögum. Meðan allt fer fram með kyrrð og spekt í heiminum, og allir geta unnið með næði, finna menn ekki svo mjög til þess, hve nauðsynleg þessi áminning er: „verið samhuga í drottins verki,“ af því menn halda þá einatt, að þeir sjeu að vinna drottins verk, þó þeir sjeu aðgjörðalausir. En þegar einhverjir óvenjulegir biltingastraumar brjótast inn í líf þjóðanna, þegar allt fer að skjálfa og titra í kring um oss af umbrotum tímans, þegar jafnvel hin helgustu bönd taka til að slitna, og allir hlutir sýnast vera á óstöðvandi flugi, þá kveður hátt við í hjörtum vorum sú áminning: „að vera samhuga í drottins verki“; hún minnir oss þá með hárri röddu á, að safnast saman í Krists anda og undir hans merkj-

um, og berjast þar samhuga góðri baráttu trúarinnar; hún minnir oss þá með hárri röddu á, að vjer erum umboðsmenn drottins leyndardóma, og að það krefst af sjerhverjum umboðsmanni, að hann sje trúr; hún minnir oss þá með hárri röddu á, að það er helg og háleit skylda vor, að leitast með sameinuðum kröptum við, að stífla straum spillingarinnar, en efla og út breiða guðsríki í kærleikans og eindrægninnar anda. Eða getum vjer dulið það fyrir oss, bræður, að tímarnir eru bágbornir víða hvar í heiminum?[1], að þjóðirnar æða, knúðar áfram og trylltar af anda þeim, sem þær kalla frelsisanda, og sem í sjálfum sjer er góður og fagur, þegar hann er samfara kristilegum fjelagsanda, en sem annars verður að eitruðum sjálfræðis og óstjórnaranda, sem fótum treður guðs og manna lög, sem hvorki skeytir um skyldur við aðra, nje um hin helgustu rjettindi annara, sem blæs bölvan sinni á kærleikann og friðinn, hin fegurstu blóm lífsins, og sem að lokunum drepur sjálfan sig, svo þjóðirnar geti sefazt og rankað við sjer aptur, af því guð hefur ekki æfinlega sleppt þeim í fráleit sinni. Að vísu eru það margir á vorum dögum, sem vilja líkjast hinum fyrstu kristnu í því, að hafa allt sameiginlegt[2]; en þeir hirða ekki um, að líkjast þeim í hinu, sem mest á ríður, að „vera samhuga

[1]) Þetta lítur einkanlega til þeirra uppreista og þess ófriðar, sem brauzt út í flestum löndum norðurálfunnar 1848.

[2]) Hinir svo kölluðu Communistar.

í drottins musteri, neyta sinnar fæðu með glaðværð og hjartans einfaldleik," og lofa guð og þakka honum. Þeir vilja líkjast hinum fyrstu kristnu í því, að hafa allt sameiginlegt, það er að skilja: þegar þeir þiggja, en ekki þegar þeir eiga að gefa, og gleyma því, að hinir fyrstu kristnu voru ekki hrifnir af ráns- og ruplunar-anda, heldur af kristilegum kærleiksanda, sem með fúsu geði gjörði þeim gott, er við þurftu. Látum oss því, bræður góðir, vera samhuga í drottins verki, í sjerhverju kristilegu kærleiksverki, en berum þá virðingu fyrir rjettindum annara, sem guðs og manna lög bjóða; gleymum ekki að gjöra gott og út býta, því þær fórnir þóknast guði vel; en gleymum ekki heldur hinu, sem postulinn segir: „Þó eg bitaði niður allar eigur mínar, og ljeti jafnvel brenna mig, en hefði ekki kærleikann, væri mjer það til einkis gagns". Verum samhuga í kærleikanum; þá erum vjer samhuga í drottins verki, því hann er hin eilífa kærleikans uppspretta, og öll hans verk spretta af kærleika. Ef vjer sjáum, að bóla tekur á einhverjum ókristilegum úlfbúðaranda í sameign sálusorgarans og sóknarbarna hans — sem góður guð afstýri frá fósturjörðu vorri —, þá sjeum samhuga í drottins verki, samhuga í því, að ganga á undan öðrum með kristilegu eptirdæmi, samhuga í því, að út breiða friðarins og kærleikans anda í vorum verkahring, samhuga í því, að draga sóknarbörnin að oss með blíðri og ástúðlegri sambúð, og höfum allan huga

á því, að gjöra verk vorrar köllunar í ótta drottins; en það er verk vorrar köllunar, að efla og út breiða guðsríki í hjörtum sjálfra vor og annara. Þótt vjer sjáum, að Krists kirkju sje lítið skeytt af stjórnendum þessa heims, þótt það á stundum líti svo út, eins og hún ætli að veslast upp og deyja, þá sjeum ókvíðnir og treystum honum, sem heiminn hefur sigrað, sem er konungur síns safnaðar, og honum jafnan nálægur; hans kirkja deyr ekki, því hún er sprottin frá honum, og við helzt af honum, en hann er upprisan og lífið, og í hans orði býr eilífur sáluhjálpar-kraptur. Hvernig sem allt biltist í heiminum, skulum vjer því ókvíðnir vinna drottins verk, og hvort heldur vjer erum nálægir eða fjarlægir hver öðrum að líkamlegum návistum, þá skulum vjer vinna samhuga að þessu verki, og biðja drottin, sem bæði verkar viljann og máttinn til hins góða, að blessa vor verk, og hann mun vissulega bænheyra oss, og enn, eins og forðum, „bæta daglega við söfnuðinn þeim, sem hólpnir verða“. Já, hvort heldur vjer erum nálægir eða fjarlægir hver öðrum að líkamlegum samvistum, þá vinnum samhuga drottins verk. Þær stundirnar eru fleiri í lífi flestra vor, að vjer ekki getum komið saman, talað eða verið saman; en engin sú stund er til í lífi voru, að vjer ekki getum hugsað saman, ef vjer erum samhuga í drottins verki. En þær stundirnar, hvort sem þær eru fleiri eða færri, sem oss auðnast að hittast á og koma saman, ættu að glæða

og efla hjá oss þá andlegu samvinnu þess á milli. En þó fundum vorum kunni optar að bera saman á lífsleiðinni, þá er það sjaldan nema í svip, og vjer erum svo opt með fram háðir annarlegum sýslunum, að vjer getum ekki haft öll þau not af samfundunum, sem vjer annars vildum. En sjerlega upphvatningu til andlegrar samvinnu fáum vjer, þegar svo ber undir, að vjer komum saman sem andlegrar stjettar menn, sem samþjónar og verkamenn í sama víngarði drottins. Þannig er þeim fundi varið, sem vjer eigum hjer með oss í dag, og þess vegna er hann merkilegri og hátíðlegri en flestir aðrir fundir vorir. Að sönnu er verkefni það ekki svo mikið nje margbrotið, sem vjer hjer eptir fornri venju höfum að vinna[1], og þó er það merkilegt, ef það er unnið í kærleikans anda; en það gefur oss nýja upphvatning, til að íhuga sem bezt og grandgæfilegast, hvernig þess háttar fundum vorum verði svoleiðis fyrir komið eptirleiðis, að þeir geti borið sem mestan ávöxt fyrir sjálfa oss, embættisbræður vora og kristilegan söfnuð, að þeir geti orðið meðal til að efla og út breiða guðsríki í hjörtunum, til að tengja kristileg kærleiksbönd milli vor og embættisbræðra vorra, milli vorrar stjettar og hinna annara stjetta í landinu, svo að vjer gætum allir verið eitt í Jesú Kristi, drottni vorum.

---

[1]) Einkanlega að úthluta peningum meðal fátækra prestaekkna og uppgjafa-presta.

Æ, drottinn, leggðu þína blessunarhönd yfir vora veiku viðburði, upplýstu hina andlegu stjett með þínum anda, svo hún ávallt sje samhuga í þínu verki; styrktu kærleiks- og eindrægnis-band milli allra stjetta. Friðarins eilífi faðir, sendu þinn frið niður á jörðina, svo hún læri að þekkja, hvað til síns friðar heyrir; sendu þinn frið niður í hjörtun, svo þau leiti þín og þíns ríkis. Bænheyr það í Jesú nafni. Amen.

---

# Ræða,

## haldin við byrjun alþingis 1853.

---

### Bæn.

Í þínu nafni, drottinn, á sjerhver athöfn að byrja, því það, sem ekki nær til þín, eða sprettur frá þjer, hverfur aptur og verður að engu, og getur ekki borið varanlegan ávöxt. Gefðu oss náð til þess, himneski faðir, að að hafast ekkert í orði nje verki, nema það, sem þjer er þóknanlegt; láttu sjerhverja athöfn vora byrja í þínu nafni og fullkomnast í þínum ótta, svo að öll vor iðja verði þjer til dýrðar, en sjálfum oss og öðrum til sannrar blessunar og heilla. Láttu þinn anda, anda ráðs og skilnings, upplýsa huga vorn, og leiða oss í

allan sannleika; láttu hann kenna oss, að leita sannleikans í kærleika, svo sannleikurinn leiði oss til þín. Bænheyr það, faðir vor, o. s. frv.

*Texti*: *Kóloss.* 3, 17:

***Hvað helzt þjer að hafizt í orði eða verki, það gjörið í nafni drottins Jesú, þakkandi guði og föður fyrir hann.***

Að gjöra einhvern hlut í Jesú nafni, er sama sem að gjöra hann í trúnni á Jesúm, með bæn til hans og í hans anda, og því er það svo sem auðvitað, að þegar postulinn býður kristnum mönnum, að gjöra allt, sem þeir að hafist, í nafni drottins vors Jesú Krists, þá er það meining hans, að menn að hafist ekki annað en það, sem er leyfilegt og gott; því að ætla sjer að byrja nokkra syndsamlega athöfn í Jesú nafni, lýsti því, að menn væru annaðhvort svo fáfróðir, að þeir gætu ekki gjört greinarmun góðs og ills, eða svo hugspilltir og hræsnisfullir, að þeir ætluðu sjer að fegra hið illa fyrir sjálfum sjer eða öðrum með guðrækilegu yfirskyni. En mörgum athöfnum í lífi voru er svo háttað, enda þeim, sem að öðru leyti kunna að vera leyfilegar og nytsamlegar, að þær í fljótu bragði ekki sýnast standa í neinu sjerlega nánu sambandi við trúarbrögðin, eða nauðsynlega þurfa að spretta af guðrækilegum rótum, til þess að verða vel af hendi leystar. En þó þetta sýnist svo, þegar fljótlega er á það litið,

þegar það er skoðað frá veraldlegu sjónarmiði, og einungis gætt að yfirborði athafnanna og hinum næsta tilgangi þeirra, þá er það þó ekki svo í raun og veru; því allar gjörðir vorar, sem annars hafa nokkra þýðingu fyrir mannlegt fjelag, hafa einnig siðferðislega þýðingu, og standa að því leyti í sambandi við trúarbrögðin. Þetta samband lýsir sjer ósjálfrátt í meðvitund hins trúaða, því að við öll sín áform og fyrirtæki lyptir hann huganum upp til drottins, og biður hann að vera í verki með sjer, svo að verk hans geti orðið sjálfum honum og öðrum til blessunar og heilla, og hinn trúaði treystir því, að það, sem þannig er áformað, muni á einhvern hátt leiða gott af sjer, og verða meðal, til að efla guðsríki, án þess hann opt og tíðum fyrirfram sjái, hvernig þetta muni atvikast, eða með öðrum orðum, án þess hann opt og tíðum geti gjört sjer nákvæmlega grein fyrir því, hvernig því sambandi sje varið, sem er milli fyrirtækis hans og trúarbragðanna. Um þetta samband, sem þannig birtist ósjálfrátt í hjarta hins trúaða, getum vjer enn betur sannfærzt, þegar vjer virðum fyrir oss það samband, sem er milli borgaralegs fjelags og þess fjelags, sem beinlínis byggist á trúarbrögðunum, milli þjóðfjelagsins og kristilegrar kirkju.

Efling og útbreiðsla guðsríkis er mark og mið kristilegrar kirkju, og þessi kristilega hugsjón útheimtir alla krapta mannsins og gjörvallt líf hans;

en kraptur mannsins fullkomnast bezt í borgaralegu fjelagi, og líf hans í frjálsu, en þó reglubundnu þjóðlífi, og þannig felst tilgangur kristilegrar kirkju í kristilegu þjóðfjelagi. En það er ekki einungis tilgangur kirkjunnar, að efla dyggð og siðprýði, heldur er það einnig tilgangur þjóðfjelagsins, og eitt af undirstöðu-atriðum þess. Kirkjan og þjóðfjelagið mismuna einungis í því, hvernig þau skipta með sjer þessu ætlunarverki, og hvernig hvort um sig fer að ná þessum tilgangi sínum. Að því leyti sem barna-uppfræðingin ekki byggist á trúarbrögðunum, þá er þeim meðulum og þeim kröptum, sem þjóðfjelagið á ráð á, þannig varið, að það verður einkanlega að fást við hina ytri hlið fyrirætlunar sinnar, við hina ytri hlið menntunar og siðsemi. En af því fyrirætlun þjóðfjelagsins nær lengra en til hinnar ytri siðsemi og menntunar, þá hlýtur það að játa, að framkvæmdir þess eru undir því komnar, að hið siðferðislega líf geti fullkomnazt og lagazt í þess innstu og dýpstu rótum. Þannig þarf þjóðfjelagið til sinnar eigin fullkomnunar á öðru fjelagi að halda, sem með þeim andlegri og frjálsari meðulum, er það hefur ráð á, taki að sjer hina innri hlið ætlunarverksins. Og þessi þörf kemur því betur í ljós, sem menn gjöra sjer betur grein fyrir, í hverju hin siðferðislega menntun er fólgin. Hún er ekki einungis fólgin í því, að fullkomna hið ófullkomna, og halda framförunum í rjettu horfi,

heldur og í því, að losa manninn við hans syndumspillta eðli, og kenna honum að sigra eigingirnina af elsku til guðs og náungans; hún er í stuttu máli fólgin í því, að maðurinn endurfæðist. Þessari siðferðislegu menntun, sem þarf að byrja í rótum hjartans, getur þjóðfjelagið ekki komið til leiðar, hversu haganlega sem því er fyrir komið, heldur einungis guðlegur og endurleysandi máttur trúarbragðanna. En að hinu leytinu hlýtur kristileg kirkja að kannast við, að þjóðfjelagið er guðleg menntunarstofnan að því leyti, sem það hefur siðferðislegan tilgang, og að hún getur ekki tekið að sjer starfa þess, án þess að verða gyðingleg, og að hún má því ekki án þjóðfjelagsins vera; eins og þjóðfjelagið að sínu leyti ekki heldur getur fullkomnazt án kristilegrar kirkju. Það er því einkenni kristilegs þjóðfjelags, að það forðast að setja sig í kirkjunnar stað, að það kannast við takmörk sín, og að það leitar sinnar eigin fullkomnunar með því, að efla framkvæmdir kirkjunnar. Einungis með því, að hlynna að frelsi kirkjunnar, getur þjóðfjelagið komið því til leiðar, sem það ætlast til af kirkjunni, að hún gróðursetji sem bezt hlýðni við lögin, lotningu fyrir þjóðlegum tilskipunum, og áhuga á almennum fjelagsheillum. Eins og kirkjan verndar hið innra líf þjóðfjelagsins, eins á og þjóðfjelagið að vernda hið ytra skipulag kirkjunnar. Þetta nána samband milli kristilegrar kirkju og kristilegs þjóðfjelags lýsir sjer ekki einungis í samvinnu

beggja þessara fjelaga, heldur og í öllum þeim athöfnum hvors um sig, sem hafa nokkur áhrif á fjelagslífið, og miða til að mennta og betra, en allar benda þær fyrst og seinast upp til hans, sem verkar viljann og máttinn til hins góða, upp til hans, sem ávöxtinn gefur. Þess vegna er oss líka boðið, að byrja allar vorar athafnir í Jesú nafni, í hans nafni, sem til þess fæddist og kom í heiminn, að bera sannleikanum vitni, sem sjálfur var vegurinn, sannleikurinn og lífið, og sem í öllum sínum athöfnum hafði guðs dýrð og mannanna farsæld fyrir augum sjer. Við það losast hugurinn við alla eigingirni og hjegómadýrð, svo athafnirnar stjórnast af helgandi áhrifum trúarbragðanna, og hafa einungis tillit til guðs dýrðar og almennra fjelagsheilla.

Það þarf ekki neinnar sönnunar við, að þær samkomur, sem með ráðum sínum eiga að bæta skipulag þjóðfjelagsins, annaðhvort yfir höfuð eða í einstökum greinum, sem með viturlegum tillögum sínum eiga að vekja athygli stjórnarinnar á því, hvernig bæta þurfi úr ýmsum vankvæðum, og ráðgast um og sýna, hvernig annað betra og fullkomnara verði sett í staðinn, að þessar samkomur, segi eg, hafa mikla siðferðislega þýðingu, að athafnir þeirra hafa menntandi og betrandi áhrif á fjelagslífið, og að það því skiptir miklu, í hvers nafni þær eru byrjaðar, í hverjum anda þær eru unnar.

Þessi sannfæring hefur einnig leitt oss, hátt-

virtu, kristilegu tilheyrendur, á þennan helga stað, til þess að lypta huga vorum upp til sannleikans og kærleikans eilífu uppsprettu, áður en vjer gengjum að því verki, sem oss er fyrir sett. Vjer finnum, hversu áríðandi það er, að vinna þetta verk í kristilegum anda, og hversu nauðsynlegt það er, að leita til þessa liðs og krapta hjá honum, sem er höfundur og fullkomnari vorrar trúar.

Þegar talað er um samvinnu og viðskipti manna í trúarbragðaefnum, þá er sú regla gullvæg, sem kristnir kennifeður hafa gefið, að vjer eigum að vera samdóma og á einu máli í þeim hlutum, sem nauðsynlegir eru, frjálsir og frjálslundaðir í hinum, sem vafasamir eru og minna er í varið, en kærleiksfullir í öllum hlutum[1]. Sje þessari reglu fylgt í trúarbragðaefnum, þá má eiga það víst, að það, sem þannig er að hafzt, verður gjört í Jesú nafni, að það verður unnið í kristilegum anda. Í trúarbragðaefnum eigum vjer kristnir menn hægt með að sjá hið eina nauðsynlega, hægt með að finna það band, sem á að samtengja allra hjörtu í kærleikanum, það er trú vor á Jesúm Krist; því vjer vitum, að enginn getur annan grundvöll lagt, og að oss er ekkert annað nafn gefið, sem oss byrjar sáluhólpnum í að verða. En þegar vjer vitum þetta, þá vitum vjer líka, að vjer í trúnni

[1]) In necessariis unitas, in dubiis libertas, in omnibus caritas.

á Jesúm Krist eigum að leita guðs og hans ríkis. Um þessi undirstöðuatriði trúar vorrar þurfa kristnir menn að vera samdóma, til þess að geta verið kristnir; en þótt þá kunni að á greina í einhverjum öðrum trúargreinum, sem minna er í varið, geta þeir allt að einu verið kristnir fyrir það, ef þeir ekki láta þennan ágreining vekja hjá sjer úlfbúð og hatur, heldur auðsýna hver öðrum kristilegan kærleika í öllum hlutum. Þessa reglu getum vjer einnig að nokkru leyti heimfært upp á samvinnu vora í almennum fjelagsmálefnum. Að sönnu eigum vjer í þess háttar efnum erfiðara með að sjá hið eina nauðsynlega, erfiðara með að greina þá nauðsynlegu hluti frá hinum, sem þykja efasamir eða síður nauðsynlegir, og kemur það bæði til af eðli málefnanna sjálfra, og þó ekki síður af hinu, að þekking manna á slíkum málum kann að vera misjöfn, yfirlit þeirra yfir málin misjafnt, og hin stjórnfræðislega menntun þeirra ófullkomin. En þó getum vjer sjálfir mikið gjört til þess, að þekking vor á hinu nauðsynlega einnig í þessum málum skýrist æ meir og meir, og þetta er vafalaust skylda vor allra. Vjer eigum allir að leita sannleikans, og hið bezta meðal til að finna hann er, að leita hans í kærleika. Ef vjer út rýmum úr hjörtum vorum allri eigingirni og hjegómadýrð, allri þrætugirni og blindum ákafa, en höfum lifandi áhuga á málefnunum sjálfum og á afleiðingum og sambandi þeirra við almenningsheillir, þá

munum vjer betur og betur geta gjört mun á því, sem meira er í varið, og hinu, sem minna er í varið, og verða því forsjálli, því aðgætnari og varkárari í dómum vorum og tillögum. En af því þeim málefnum, sem ekki snerta trúarbrögðin beinlínis, einatt er svo varið, að fleiri vegir sýnast mögulegir, til að ráða þeim haganlega til lykta, þá verður þó varla hjá því komizt, að ýmislegur meininga-munur kunni að koma í ljós, og er hann í sjálfum sjer engan veginn vítaverður, því hann getur leitt til þess, og *á* að leiða til þess, að málefnin verði enn betur og vandlegar rædd og skoðuð; hann getur leitt og *á* að leiða til þess, að sameina sem bezt hugsanir manna, þegar búið er að skýra málin frá öllum hliðum. En til þess hann gjöri þetta, útheimtist, að samvinna manna stjórnist af kærleika, að hinar ýmsu skoðanir, hinar ýmsu leiðir, sem farnar eru, komi saman í kærleikanum. Vanti kærleikann, þá verður meiningamunurinn til þess að tvístra, í stað þess að sameina, þá sprettur af honum kali og kaldyrði, beisk og bitur orð, sem særa hjörtun og vekja þrætu og flokkadrætti, og þetta hlýtur að gjöra ágreininginn langtum meiri, en hann annars hefði orðið, og hafa ógæfusamleg áhrif á úrslit málanna. En þar sem menn vinna í kærleikans anda, þar er áhugi á málefnunum, áhugi á almenningsheillum samfara virðingu fyrir sannfæringu annara, og menn reyna þá til án hleypidóma og hlutdrægnislaust, að skoða

sem bezt annara meiningar, og geta opt við þessa ýtarlegu skoðun leiðzt til að sjá, hvað skakkt er í þeirra eigin áliti; þegar unnið er í kærleikans anda, þá verður samvinnan fögur, þá verður hún kristileg, þá verður hún heillavænleg fyrir land og lýð.

Látum oss því, háttvirtu elskulegu bræður. byrja það verk, sem vjer nú eigum fyrir höndum. í nafni drottins vors Jesú Krists. Ef vjer gjörum það af hjarta, þá munum vjer einnig fram halda því í kristilegum anda, í bróðurlegum kærleika, og þá mun það bera góðan ávöxt. En þú, höfundur alls hins góða, þú, sem verkar viljann og máttinn, leggðu oss til þessa lið og krapta í Jesú nafni. Blessaðu vorn allramildasta konung, Friðrik sjöunda, og ríkisstjórn hans; blessaðu þína kirkju og sjerhvert kristilegt þjóðfjelag; blessaðu fósturjörð vora með andlegum og tímanlegum gæðum; blessaðu öll vor áform og fyrirtæki, sem miða til að efla þitt ríki og almennar fjelagsheillir; blessaðu þau störf, sem vjer nú eigum fyrir höndum, svo þau verði til þess, að efla farsæld fósturjarðar vorrar. Þinn andi, þín náð, og þinn friður sje með oss öllum í Jesú nafni. Amen.

# Þrjár prestvígsluræður, flutar 1855 og 1856.

## I

*Texti: Tit. 1, 5—9:*

*Þess vegna skildi eg þig eptir í Krít, til þess þú færðir í lag, það sem á brast, og settir öldunga í sjerhverri borg, eins og eg skipaði þjer, þann er væri ólastanlegur, einnar konu eiginmaður, sem ætti trúuð börn, er hvorki hefðu illt orð á sjer fyrir ótjerlegt líferni, nje væru óhlýðin. Því biskup á að vera ólastanlegur, svo sem guðs ráðsmaður, enginn sjálfbyrgingur, ekki reiðigjarn, ekki drykkjumaður, eigi ofstopasamur, nje sólginn í svívirðilegan ávinning, heldur gestrisinn, gott elskandi, ráðsvinnur, rjettvís, heilagur, bindindissamur, sem er fastheldinn við hinn áreiðanlega lærdóm, eins og hann hefur kenndur verið, svo að hann bæði sje fær um, að fræða í þeim heilsusamlega lærdómi, og sannfæra þá, sem á móti mæla.*

Í vorum upplesna texta skýrir Páll postuli frá því,

hvers vegna hann hafi skilið Títus, lærisvein sinn, eptir í Krítarey, sem sje til þess, að fullkomna þar allt það viðvíkjandi kristniboðinu, sem postulinn varð að hætta við, þegar hann fór þaðan, og til þess að setja þar öldunga eða umsjónarmenn og kennendur hinna einstöku safnaða, sem þar mynduðust. Síðan telur postulinn upp nokkrar kristilegar dyggðir, sem þessir umsjónarmenn safnaðanna, eða biskupar, eins og hann kallar þá, verði að hafa til að bera, og nokkra lesti, sem þeir ekki megi vera hneigðir fyrir. Af þessu sjáum vjer, kæru bræður, að prests- eða kennimanns-embættið á rót sína í hinni fyrstu kristni. Það er tilskipað af Kristi sjálfum og postulum hans; og vjer sjáum, að þetta hlaut svo að vera, til þess að regla og samheldi gæti við haldizt í kristilegri kirkju, sem ekki er síður áríðandi þar, en í hverju öðru fjelagi. Í kristilegri kirkju verður að vera kennaraembætti, og þess vegna má enginn troða sjer fram, til að kenna, nema hann sje áður reyndur og rjett kjörinn til þess. Þess vegna segir postulinn Jakob: „Verið ekki, bræður mínir, margir kennifeður;“ og postulinn Páll varar við þeim, sem safna sjer kennendum eptir eigin girndum, og segir, að afleiðing þess muni verða sú, að þeir snúi eyrum sínum burt frá sannleikanum, og halli sjer að hjegiljum; þess vegna segir líka sami postuli, að drottinn hafi gjört suma að postulum, suma að spámönnum, suma að guðspjallamönnum, suma að hirðum og læri-

feðrum. Þó postulinn í vorum upplesna texta telji upp nokkrar dyggðir, sem kennendur guðsorða eigi að stunda, og nokkra lesti, sem þeir eigi að varast, þá megum vjer ekki ætla, að postulinn með því hafi ætlað sjer að til greina allar þær dyggðir, sem þeir ættu að leggja stund á, eða alla þá lesti, sem þeir ættu að forðast, nje heldur hitt, að þeim einum sje gjört þetta að skyldu, en engum öðrum. Vjer vitum, að kennendur guðsorða og allir kristnir menn yfir höfuð eiga að leggja stund á allar kristilegar dyggðir, og forðast allt það, sem illt er og guðs vilja gagnstœtt, með því oss öllum er boðið, að hreinsa hjörtu vor af saurgun holdsins og andans, og kappkosta að bera trúarinnar ávexti í heilögu líferni, og að verða heilagir eins og sá, sem oss hefur kallað. En það er meining postulans, að eins og kristnir menn eiga yfir höfuð að tala að stunda þær kristilegu dyggðir, og varast þá lesti, sem hann telur upp, eins sje þetta einkum og sjer í lagi heilög skylda guðsorðs kennanda, og skilyrði fyrir því, að þeir megi takast þetta háleita embætti á hendur, því þeir eigi að vera söfnuðunum til fyrirmyndar í öllu góðu; þeir eigi að vera ljós og leiðtogar safnaðanna á lífsins vegi, og leiðbeina þeim með orðum og eptirdœmi. Þó er það einn eiginlegleiki, sem postulinn í vorum upplesna texta gjörir ráð fyrir að sje verulegt einkenni guðsorðs kennara, og sem hann verði að hafa til að bera fremur öllum öðrum, en það er: að hann

sje fastheldinn við hinn áreiðanlega lærdóm, eins og hann hefur kenndur verið, svo að hann sje fær um, að fræða í þeim heilsusamlega lærdómi, og sannfæra þá, sem á móti mæla. Ó, hve nauðsynlegur og ómissandi er þessi eiginlegleiki fyrir kennendur guðsorðs, að þeir hafi ekki einungis greinilega þekkingu á Jesú Krists sáluhjálplega lærdómi, heldur og innilega sannfæringu hjartans um hans guðlega eðli og uppruna, svo þeir sjeu fastheldnir við hann, hvernig sem hin ytri lífskjör þeirra kunna að breytast; því enginn er rjettur prjedikari guðsorðs nema sá, sem fyrst prjedikar fyrir sjálfum sjer, og innrætir sjer þannin Jesú evangelíum, að það verður í hjarta hans að ótæmandi uppsprettu áminninga og huggunar, fyrst og fremst fyrir sjálfan hann, og síðan fyrir aðra. Enginn er rjettur prjedikari guðsorðs, nema sá, sem fyrst og fremst geymir það í góðu og siðsömu hjarta, og sem jafnframt hefur tillit til síns safnaðar, og leitast við að auðga hann að þessum andlega himneska fjársjóði, með því að kenna guðsorð hreint og skýrt af hjartanlegri alúð og alvöru, svo að tilheyrendurnir geti tileinkað sjer það, og gjört það ávaxtarsamt fyrir líferni sitt. En til þessa útheimtist meir en lausleg umhugsun og lítilfjörleg viðleitni. Sem kennendur guðsorðs verðum vjer að lifa í þessum hugsunum; þær verða að fylgja oss kveld og morgna og miðjan dag, í gleði og sorg, og sjerhverri stöðu

lífsins; þá verða þær líka að gleði og unaði þess, og vor innilegasta ósk verður þá sú, að geta gjört aðra hluttakandi í þessari vorri andlegu auðlegð, og að geta leitt þá til guðsríkis. Og hversu opt fær ekki hinn árvakri og samvizkusami guðsorðs kennari færi á, að styrkja trú bræðra sinna, og ávarpa þá með orðum áminningarinnar og huggunarinnar, ekki einungis í kirkjunni, heldur og endrarnær. Hann er fræðari unglinganna, og opt verða þeir alla æfi að búa að þeirri trúarbragðaþekkingu, sem hann hefur innrætt hjá þeim, og þessi þekking á þá að vera þeirra stoð og stytta í freistingum og sorgum, þeirra huggun og athvarf í lífi og dauða. Ó, hversu áríðandi er þá barnauppfræðingin fyrir kennara guðsorðs, hversu áríðandi fyrir hann, að þau orð, sem hann talar til unglinganna, beri ávöxt í hjörtum þeirra til eilífs lífs. Hans er vitjað til sjúkra, hann gengur í sorgarinnar hús; og sje það þakklætis og blessunar vert, að bæta úr líkamlegri neyð bræðra sinna, mun þá ekki sá eiga þetta skilið, sem linar þá sorg, sem ekkert stundlegt getur læknað, eða sá, sem vitjar ekkna og föðurlausra í þeirra þrengingum, og lætur þá finna til þess, að þeir eru ekki einmana nje munaðarlausir? En þá verður hann líka að taka með sjer þann lækni, sem einn getur læknað hin sundurkrömdu hjörtun, og sýna, að hann sje fastheldinn við Jesú Krists sáluhjálplega lærdóm, svo að hinir sorgmæddu geti með fullkomnu

trúnaðartrausti hneigt sín harmþrungnu hjörtu að hans huggandi fortölum, og hann geti leitt þá að svölunarlindum hins eilífa kærleika, í náðarfaðm hans, sem er faðir allra föðurlausra, faðir allrar miskunar. En þennan tilgang á hann að hafa, ekki einungis þegar hann vitjar hinna sjúku og syrgjandi, heldur einnig, þegar hann er staddur meðal hinna glöðu, hraustu og heilbrigðu, sem halda, að þeir þurfi ekki andlegs læknis við, sem mæla á móti syndinni, og finna ekki til hennar hjá sjálfum sjer, nje hafa nokkra löngun eptir guði. Þessa verður hann að sannfœra um syndina, rjettlætið og dóminn, og reyna til, að vekja þá til iðrunar og apturhvarfs með áminningum og aðvörunum guðsorðs. Já, kærir brœður, hinn árvakri og samvizkusami kennari guðsorðs helgar líf sitt sálarheillum síns safnaðar. Yfir höfuð forðast hann, eins og postulinn Páll segir, að gefa nokkrum ásteytingarefni, svo embættið verði ekki fyrir lasti, heldur tjáir sig í öllu sem guðs þjónustumann með þolinmœði, grandvöru líferni, þekkingu umburðarlyndi, blíðlyndi, heilögu hugarfari, falslausum kærleika. Og þegar guðsorðs kennari breytir þannig, þegar hann að dœmi postulans leitast við að vera brœðrum sínum allt í öllu, svo hann þó geti áunnið nokkra fyrir guðsríki, ó, hversu háleit og heillarík verður þá staða hans, og fagurt og blessunarfullt það friðarins og kærleikans band, sem sameinar hann og söfnuðinn. Hann er þá virtur og elskaður sem

góður faðir af söfnuði sínum, að minnsta kosti af öllum þeim, sem geta gjört og vilja gjöra greinarmun góðs og ills. Og hversu eðlilegt er það ekki, að friðarins og kærleikans band sameini sálusorgarann og söfnuðinn. Til hans snýr söfnuðurinn sjer í öllum hinum mest umvarðandi atvikum lífsins, og sálusorgarinn er og á að vera söfnuði sínum hollur ráðgjafi og einlægur vinur. Hann lýsir guðs blessun yfir hjónabandinu, yfir ungbörnunum, og inngöngu mæðranna í drottins hús, og tekur þannig innilegan þátt í sjerhverri gleði safnaðarins. Og komi sorg og mæða og mótlæti upp í söfnuðinum, hver hefir þá eins gott færi á, og eins beinlínis köllun til, að hugga og hughreysta, eins og sálusorgarinn? Þó hann stundum verði að áminna, aðvara og vandlæta, og hann í bráðina kunni að baka sjer með því óvild einstakra manna, veitir þó meðvitundin um, að hafa gjört skyldu sína, honum sálarfrið og hugarrósemi, og hann lifir í þeirri von, að guð muni láta áminningar hans bera einhvern góðan ávöxt, þegar þær spretta og stjórnast af kristilegum kærleika. Til sálusorgarans flýr margur í vandræðum sínum, og leitar ráða hjá honum; til hans flýr hinn iðrandi, og leitar hjá honum huggunar af guðsorði; til hans koma einatt þeir, sem eiga í þrætum og þrasi, svo að hann sætti þá; til hans snýr sjer hinn snauði og volaði, og biður hann hjálpar; á sálusorgarann kallar einatt rödd hins deyjanda, og leitar hjá honum ljettis

og huggunar í dauðastríðinu, og biður hann að svala sjer af hinum himnesku lindum náðarinnar. Og þegar sjúklingurinn hnígur í dauðans faðm, þá er það aptur þjónn guðsorðs, sem fylgir moldum hans í hinn helgaða reit, og talar orð huggunarinnar og vonarinnar til hans eptirlifandi ástvina. Ó, hve miklu góðu getur þá sálusorgarinn með orðum og eptirdœmi komið til leiðar í sínum verkahring til eflingar guðsríkis, sinnar eigin og annara sáluhjálpar; og þó þekkir þetta enginn til hlítar nema hann, sem þekkir alla hluti. Eins og ill orð og hneykslanlegt eptirdœmi grefur um sig líkt og átumein, og út breiðir ólyfjan í allar áttir, eins er hið góða óendanlegt í afleiðingum sínum; en þessir góðu ávextir kristilegrar kenningar og góðs eptirdœmis vaxa opt í leyni og kyrrþey, án þess á þeim beri, fyr en, ef til vill, eptir lengri tíma; þeir spretta opt innra í trúarlífi mannsins, en koma ekki ætíð í ljós, fyr en frá líður. Þess vegna ríður guðsorðs kennara á, að láta ekki hugfallast, þótt hann verði ekki strax var við ávextina, heldur verður hann að vera fastheldinn við Jesú sáluhjálplega lærdóm, vökva og planta trúlega, án þess að þreytast, en fela áranguriun drottni, sem frjóvgunina gefur.

Fyrir yður, kærir brœður, hlýtur þetta að vera hátíðleg alvörustund, fyrir yður, sem nú takizt á hendur kennimannsembættið í kristilegri kirkju. Guð gefi það af náð sinni, að það alla æfi standi lifandi afmálað fyrir augum yðar, eins og eg er viss um

að það er á þessari stundu, hversu helg og háleit þessi köllun yðar er, og hvílík ábyrgð henni fylgir. Ó, látið aldrei vanþakklæti heimsins, látið aldrei kaldsinni og kærleiksleysi annara manna, látið aldrei syndir og lesti, sem þjer sjáið í kring um yður, látið aldrei sorgir og áhyggjur þessa lífs kœla yðar kristilega kærleika, veikla yðar kristilegu trú, eða deyfa yðar kristilegu von; látið það aldrei fá yður til, að gleyma skyldum yðar sem guðsorðs kennendur, þeirri ábyrgð, sem á yður hvílir, og þeim reikningsskap, sem þjer eigið að lúka drottni, sem nú sendir yður í sinn víngarð; heldur ástundið jafnan, að reynast trúir verkamenn hans og prýða lærdóm drottins vors Jesú Krists í öllum greinum. Gleymið aldrei að biðja, vaka og iðja; að biðja guð, að vera í verki með yður og blessa yðar embættisverk, vaka yfir sjálfum yður og sálarheillum þeirra safnaða, sem þjer eigið að gæta; iðja trúlega í drottins þjónustu, meðan dagur er, minnugir þess, að þegar nóttin kemur, fær enginn erfiðað. Já, nóttin rennur upp yfir oss öllum, æfidagurinn líður, og kveldið kemur; þá hættir vinnutíminn, en þá byrjar reikningsskapartíminn. Og sje það nú, mínir vinir, hræðileg tilhugsun fyrir þann, sem illa hefur breytt, að renna augunum á æfinnar kveldi yfir sinn liðna lífsdag, og renna þeim fram á leið til eilífðarinnar og dómsins, æ! hversu óttalegt hlýtur þá ekki þetta að vera fyrir þann guðsorðs kennara, sem með ótrúmennsku og hirðuleysi hefur gegnt

sinni háleitu köllun, sem í stað þess að leiða aðra til guðsríkis, hefur, ef til vill, með illu eptirdœmi og hneykslanlegu líferni leitt þá á glötunarinnar veg. En hversu gleðilegt og huggunarfullt hlýtur það aptur á mót að vera fyrir hinn árvakra og samvizkusama drottins þjón á æfinnar kveldi, að líta yfir hinn útrunna daginn, og vera sjer þess meðvitandi, að hann af ýtrustu kröptum hafi leitazt við að efla guðs dýrð og hans ríkis útbreiðslu meðal þeirra safnaða, sem drottinn hafði honum á hendur falið; því þótt hann þá, eins og allir syndugir menn, megi játa, að hann hafi verið ónýtur þjónn, þá finnur hann þó til þess í hjarta sínu, að drottinn, sem hann leitaðist við að þjóna, var máttugur í hans veikleika, máttugur með sinni nálægð og sinni blessun. Hughraustur getur hann þá rennt augunum fram á leið til eilífðarinnar og reikningsskapardagsins, og á dauðastundinni beðið: „Drottinn, láttu nú þjón þinn í friði fara". Og hvílíkur fögnuður fyrir hinn árvakra drottins þjón, að mœta þeim aptur á eilífðarinnar morgni í friðarins og sælunnar himnesku bústöðum, sem hann hjer hafði leitt á lífsins veg.

Látið þessa umhugsun, hjartkæru brœður, jafnan lifa og vaka í sálum yðar, svo þjer reynizt guði trúir allt til dauðans. Hann sje yður jafnan nálægur með hjálp og aðstoð síns anda, svo líf yðar sje honum helgað, og öll yðar verk verði

unnin í hans ótta. Hann sje með yður og blessi yður og oss alla í Jesú nafni. Amen.

---

# II.

---

*Texti: Sálm.* 43, 3:

*Drottinn, sendu þitt ljós og þinn sannleika, að þau leiði mig og flytji mig til þíns heilaga fjalls og til þíns bústaðar.*

Þetta bænarandvarp sendi Davíð upp til ljóssins himnesku bústaða, upp til hins eilífa ljósanna föður, frá hverjum öll góð og öll fullkomin gjöf kemur, frá hverjum allt ljós og allur sannleiki streymir niður til vor, dauðlegra manna. Ljós og sannleiki þýða hið sama í heilagri ritningu; en þegar þessi orð eru bæði höfð hvort hjá öðru, þá merkir ljós þá gleði og huggun, sem leiptrar hjer að ofan niður í hin sorgmæddu hjörtun, sem snýr þeim í hæðirnar, og glæðir og tendrar í þeim trúna og bænina; og sannleiki merkir þá skýra og ljósa sannfæringu um hin eilífu sannindi, sem styrkir viljann og vísar oss hinn rjetta veg. Ljós og

sannleiki eru tveir himneskir leiðtogar, sem guðleg forsjón sendir hingað, til að leiða vegfarendur þessa lífs gegn um þennan dimma dal og dauðans skugga heim til ljóssins og sælunnar eilífu bústaða. Vjer, sem allir berumst á straumi tímans fram að hinu ókunna landinu, og förum svo opt villir vegar í myrkri vanþekkingar og syndar, ættum vjer ekki að taka oss þessi Davíðs bœnarorð í munn: „Drottinn, sendu þitt ljós og þinn sannleika, að þau leiði mig og flytji mig til þíns heilaga fjalls og til þíns bústaðar“. Hjer sjáum vjer allt í þoku og ráðgátu, og þegar andi vor leitar í hæðirnar og er að skyggnast eptir eðli og upptökum allra hluta, eptir tilgangi tilverunnar og lífsins, þreytist hann einatt og örmagnast á flugi sínu, leitar að hvíld, og finnur ekki, leitar að hinu eilífa ljósinu og hinum algilda sannleika, en finnur það ekki. Æ, því höfum vjer ætíð þörf á í eptirgrennslun sannleikans, að biðja guð að senda oss *sitt* ljós og *sinn* sannleika. Hjer erum vjer þó allt af gestir og útlendir; að vísu byggjum vjer oss hjer bústaði, en finnum þó, að hjer er ekki vort rjetta heimkynni; vjer leitum að tímanlegu láni og lukku, og sœkjumst eptir stundlegum gœðum; en þegar vjer höfum fengið þetta, finnum vjer, að það getur ekki fullnœgt þörfum andans, nje svalað þorsta sálarinnar, sem allt af þráir eitthvað œðra og fullkomnara, en þetta jarðneska er. Vjer finnum, að vjer erum

ferðamenn, og höfum hjer ekki varanlegan samastað, og reynslan sýnir oss, að allra leið liggur fram í dauðans djúp, og að hann flytur alla að ókunnu landi, til óþekktra bústaða. Æ, höfum vjer þá ekki allir orsök til að biðja vorn himneska föður: „Sendu þitt ljós og þinn sannleika, að þau leiði mig til þinna bústaða“. Og fús er hinn gœzkuríki faðirinn á, að senda oss þessa himnesku leiðtoga, þegar vjer biðjum hann af hjarta. Án þeirra er líf vort ekki annað en myrkur og dauði; en það er hans blessaður vilji, að þeir skuli leiða oss frá dauðanum til lífsins, til eilífs lífs og eilífrar sælu.

Hvers get eg þá, kæri bróðir, á þessari fyrir yður svo hátíðlegu stundu óskað yður betra en þess, að drottinn sendi yður sitt ljós og sinn sannleika, að þau leiði yður til hans bústaðar. Þjer ætlið nú að takast hið háleita kennimannsembætti á hendur; og sje það nauðsynlegt fyrir alla, að biðja guð um ljós og sannleika, er leiði þá til hans himnesku bústaða, þá er þetta ekki hvað minnst áríðandi fyrir guðsorðs kennendur, sem eiga að vera leiðtogar brœðra sinna, og leiða þá til ljóssins og sannleikans, sem sjálfir eiga eptir Jesú boðum að vera ljós heimsins; því hann sagði ekki einungis til sinna fyrstu lærisveina, heldur og til allra guðsorðs kennanda þessi orð: „Þjer eruð ljós heimsins; sú borg, sem á fjalli er byggð, fær ekki dulizt. Menn kveykja ekki ljós,

til að setja það undir mæliker, heldur setja menn það í ljósastiku, að það lýsi þeim, sem inni eru; svo lýsi og yðvart ljós öðrum mönnum, að þeir sjái yðar góða framferði og dýrki yðar himneska föður". Og þannig er það enn í dag. Hvort sem söfnuðirnir eru stórir eða smáir, þá horfa þeir upp til sálusorgara síns, þessa síns andlega leiðtoga; þeir gefa gætur að kenningu hans og breytni, og ætlast til þess, að hann leiði sig í ljós og sannleika. Og hafi nú kennendur guðsorðs opt og einatt orsök til, að kvarta yfir því vanþekkingar og villu myrkri, sem er svo ríkt í hjörtum margra í kristnum söfnuðum; hafi þeir orsök til, að kvarta yfir því, að þó sæði guðsorða hjer og þar falli í góða jörð, þá falli það þó optar utan hjá veginum og verði fótum troðið, eða það falli á hellu og visni upp, eða á meðal þyrna, sem kœfi það; hafi guðsorðs kennendur orsök til, að kvarta yfir þessu, hvílíkt umkvörtunarefni hafa þá ekki söfnuðirnir, þegar kenning og breytni sálusorgarans ekki er, eins og hún á að vera, þegar þeir ekki sjá annað en myrkur og villu, þar sem þeir áttu von á ljósi og sannleika? Hvernig á þá blindur blindan að leiða? falla þeir ekki báðir í sömu gröfina? Æ, því er ábyrgðarhlutinn svo mikill, sem því fylgir, að takast kennimanns og sálusorgara embættið á hendur, og því er svo mikil þörf á, að þeir biðji guð, að senda sjer sitt ljós og sinn sannleika, svo þeir geti leitt bræður

sína í ljósinu og sannleikanum. En þetta guðlega ljós og þennan guðlega sannleika er að finna í guðsorði; það er einungis að finna í hans orði og hjá honum, sem sjálfur var ljós heimsins í æðsta skilningi, sem sjálfur var vegurinn, sannleikurinn og lífið, því það er eilíft líf, að þekkja einn sannan guð, og þann, sem hann sendi, Jesúm Krist. Hann er, eins og Jóhannes kemst að orði, hið sanna ljós, sem upplýsir hvern mann, er kom í heiminn; hann er fullur náðar og sannleka.

Þegar eg því bið góðan guð, að senda yður, kæri bróðir, sitt ljós og sinn sannleika, þá bið eg hann, að gefa yður náð til þess, að hafa frelsara yðar jafnan fyrir augum í breytni og kenningu, svo að þjer, upplýstir af hans orði og anda, megið fram ganga á sannleikans og ljóssins vegi, og getið leitt þá í allan sannleika, sem þjer eigið að leiða og fræða. Drottinn sendi yður *sitt* ljós og *sinn* sannleika, að þau leiði yður, og þá, sem þjer eigið að leiða, til hans bústaðar. Það er margs konar ljós til í veröldinni, sem menn þó kalla upplýsingu, af því hún fræðir menn um ýmislega hluti í mannlegu fjelagi; en þessi upplýsing verður að villuljósi, þegar hún þykist vera einhlít til, að geta leitt manninn gegn um þetta líf, og kannast ekki við, að hún þurfi á æðra guðlegu ljósi að halda, þegar hún missir sjónar á guði og lífinu í honum. Þetta veraldlega ljós getur að vísu leitt manninn klaklaust fram að graf-

arinnar barmi, leitt hann klaklaust yfir torfærur þessa lífs; en það slokknar í dauðans myrkrum, þegar það aldrei hefur runnið saman við hið guðlega ljósið, og getur ekki leitt manninn til himins, til drottins bústaðar. Það hefur opt verið sagt, að sannleikurinn sje ekki nema einn, og þetta er að því leyti satt, sem allt, hvað satt er, á rót sína í guði, sem er hinn algildi sannleikur, hin eilífa sannleikans uppspretta. En þegar vjer tölum um guðs sannleika, þá eigum vjer með því við þann sannleika, sem ekki einungis sprettur frá guði, heldur og leiðir til guðs, og sem því snertir vora andlegu og eilífu farsæld. Þessi guðlegu trúarsannindi eru oss opinberuð í frelsara vorum, sem er „ljómi guðs dýrðar“, og sem hefur kennt oss að þekkja föðurinn, kennt oss að þekkja hinn eilífa, algilda sannleika. Þegar maðurinn leyfir þessum sannleika að festa rætur í hjarta sínu, þá fer hann að lifa og hrærast í guði, ekki eins og hin dauða og meðvitundarlausa náttúra, heldur sem frjáls og skynsemi gædd vera; þá lifir maðurinn ekki framar, heldur lifir Kristur í honum. Þannig höndlar maðurinn eilíft líf í Kristi, um leið og hann höndlar hinn eilífa sannleika. Þetta guðlega ljós og þennan guðlega sannleika eiga kennendur guðsorðs að auglýsa bræðrum sínum, ekki einungis í kenningu sinni, heldur og í breytni sinni og líferni sínu, eða með öðrum orðum: þeir eiga ekki einungis að prjedika Krist, heldur einnig að lifa

Kristi og líkjast honum; því staða þeirra er „eins og borgar þeirrar, sem á fjalli er byggð“; staða þeirra er háleit, og fær ekki dulizt, og því nauðsynlegra er þeim, og því fremur verða þeir að gæta þess, að fram ganga í ljósinu og sannleikanum. Sje breytni þeirra kenningunni ósamkvæm, þá villa þeir sjónir fyrir brœðrum sínum; guðs ljós verður þá í höndum þeirra að villuljósi, og þeir breyta sannleika guðs í lygi. En af því þeir fram bera hin guðlegu sannindi í brothættum leirkerum, af því þeir eiga allt af í stríði við vanþekkingar og villu myrkur, ekki einungis í hinum ytra heimi, heldur og í hjörtum sjálfra þeirra, af því syndsamlegar girndir og freistingar allt af leitast við að deyfa hið guðlega ljós í sálum þeirra, og tæla þá með sínum fagurgala, svo þeir gleymi hinum guðlega sannleika, og missi sjónar á drottins bústöðum, þá þurfa þeir iðulega að ítreka þessa bœn: „Drottinn, sendu þitt ljós og þinn sannleika, að þau leiði mig, og flytji mig til þíns bústaðar“. Já, staða guðsorðs kennanda er eins og borgar þeirrar, sem á fjalli er byggð. Eins og hún ekki getur dulizt, eins getur ekki heldur kenning og líferni þeirra dulizt. Það er nú að vísu satt, að í augum alltsjáanda guðs fær ekkert dulizt, því allir hlutir eru jafnt berir og naktir fyrir honum, og hann þekkir hinar heimulegustu hugrenningar allra manna, en þó geta margir dulizt fyrir mönnum, annaðhvort með hrœsni og skinhelgi, eða af því staða þeirra

er svo lág og lítilfjörleg, að fáir gefa gætur að líferni þeirra. Þannig er stöðu prestsins ekki varið; hann á bágt með að dyljast jafnvel fyrir mönnum, af því hann er settur á þann stað í mannlegu fjelagi, sem blasir við allra sjónum, og hefur þá köllun á hendi, sem er næsta áríðandi fyrir alla, og sem gefur öllum tilefni til, að gefa gætur að því, hvert hann stefnir, því honum er falið á hendur, að lýsa öðrum með ljósi og sannleika guðs heilögu orða. Staða hans er háleit, eins og þeirrar borgar, sem byggð er á fjalli; en þetta má ekki taka í veraldlegum skilningi, því staða hans á ekki skylt við veraldlega upphefð. Hin veraldlega tign og upphefð stendur hátt í heimsins augum, en það er ekki ætíð svo í guðs augum. Hann, sem er öllum hlutum æðri, hefur útvalið það, sem fyrir heiminum var lítilmótlegt, og hann hefur opinberað það smælingjum, sem vitringum var hulið. Þegar hin veraldlega tignin ekki styðst við guð, hrynur hún, þegar minnst vonum varir, og þótt vitringar þessa heims kveyki ljós í kring um sig, og kenni sannleika, þá nær þetta ekki til hinna fáfróðu; en sannleiksljós guðs heilögu orða lýsir öllum jafnt, eins á hinum hærri sem hinum lægri stöðvum; það lýsir eins hinum fáfróða sem hinum fróða, og leitast við að leiða alla á lífsins veg. Þetta guðlega sannleiksljós er sálusorgaranum fengið í hendur; það á að vera leiðarvísir hans og safnaðarins, og flytja hann og þá til drottins bústaðar. En svo það ekki

fyrir vanþekking eða mannlegan breyskleika deprist eða deyi í höndum hans, verður hann jafnan að gæta þess, að það verður að fá lífsvökva sinn hjer að ofan frá ljósanna föður, og því verður hann iðulega að biðja guð, að upplýsa sig með sínu ljósi og sínum sannleika.

Æ, svo gefi þá góður guð yður náð til þess, kæri bróðir, að þjer getið látið hans heilaga sannleiksljós loga skært og fagurt í líferni yðar og kenningu, svo þjer með fögru dyggðadœmi getið verið ljós safnaðarins, og leitt hann í allan sannleika, uns hinum algóða föður þóknast, að flytja yður hjeðan til síns himneska bústaðar. Já, þess biðjum vjer þig, drottinn, sendu þessum þínum þjóni þitt ljós og þinn sannleika, að þau leiði hann, og flytji hann til þíns bústaðar. Upplýstu oss alla með ljósi þinna lífsins orða, og helgaðu oss alla í þínum sannleika. Bœnheyr það í Jesú nafni. Amen.

---

# III.

---

*Texti: Post. g. 20, 28.:*

*Hafið nú gát á sjálfum yður, og á allri hjörðinni, yfir hverja heilagur andi setti yður*

*tilsjónarmenn, að annast söfnuð drottins, sem hann hefur útvegað með sínu eigin blóði.*

Þegar Páll postuli staðnæmdist í Míletus á ferð sinni til Jerúsalem, sendi hann til Efesus, og kallaði til sín öldunga safnaðarins þar, og hjelt fyrir þeim þá ástúðlegu skilnaðarræðu, sem getið er um í Post. g. bók, 20 kap., og gaf þeim meðal annars þessa áminningu: „Hafið nú gát á sjálfum yður, og á allri hjörðinni, yfir hverja heilagur andi setti yður tilsjónarmenn, að annast söfnuð drottins, sem hann hefur útvegað með sínu eigin blóði“. Þessari áminningu postulans vil eg nú snúa til yðar, kæru bræður, sem á þessari hátíðlegu og fyrir yður svo áríðandi stundu takizt á hendur það tilsjónarmannsembætti með drottins dýrkeypta söfnuði, sem hann hefur kjörið yður til. Og áminningin er þá fyrst og fremst þessi: „Hafið gát á sjálfum yður“. Allir hafa þörf á þessari áminningu, ekki einungis þeir, sem drottinn hefur sett fyrir hirðara og kennendur, heldur allir menn í sjerhverri lífsins stöðu, hvort sem þeir eru settir yfir mikið eða lítið, hvort sem þeir eru voldugir eða vesalir, ríkir eða fátækir. Já, ekki einungis hinir andvaralausu þurfa þess við, að þeir gæti að sjer, svo þeir í tíma geti snúið við, snúið af vegi glötunarinnar, og horfið aptur til guðs, heldur þurfa einnig guðsbörn að hafa gát á sjer, hafa stöðugt gát á hugrenningum, orðum og verkum, svo þau ekki hlýðn-

ist holdsins og heimsins tælandi röddum, nje láti þær leiða sig af lífsins vegi. Ekki einungis hinir ungu þurfa þess við, að gæta sín fyrir æskunnar girndum, heldur og hinir eldri; því sjerhver aldur og sjerhver staða lífsins hefur sínar freistingar, og þótt andinn sje reiðubúinn, þá er þó holdið jafnan veikt. En engir þurfa þó þessarar áminningar fremur við, en kennendur guðsorða, sem drottinn hefur falið það háleita verk á hendur, að leiða bræðurna á lífsins veg; þeir eru eins og borg sú, sem á fjalli stendur og eigi fær dulizt; og það er eðlilegt, þótt söfnuðirnir gefi gætur að líferni þeirra, og þótt eptirdæmi þeirra hafi óvenjulega mikil áhrif, bæði til góðs og ills, á breytni safnaðanna. Og hafi nú kennendur guðsorðs ekki gát á sjálfum sjer, heldur hlaupi eptir ginningum holdsins og heimsins, og sleppi allri umhyggju fyrir sínum eigin sáluhjálparefnum, hvernig er þá við því að búast, að þeir rjettilega geti gegnt verkum sinnar köllunar, eða eflt og út breitt guðs dýrð og hans ríki í þeirra verkahring? Eða er blindur fær um, að leiða blindan? detta þeir ekki báðir í sömu gröfina? Ó, hvílík ábyrgð er það þá ekki, að leiða bræður sína með syndsamlegu og hneykslanlegu líferni á glötunarinnar veg. Æ, hafið því jafnan gát á sjálfum yður, kæru bræður! En hvernig getum vjer, veikar og breyskar manneskjur, gætt vor í freistinganna stríði, svo vjer ekki hrösum? Hvernig getum vjer sýnt stöðuga árvekni í vorum sáluhjálparefnum? Einungis

með því, að leita liðs og krapta hjá honum, sem í veikum er máttugur, með því að halda oss stöðuglega til hans, og biðja hann heitt og innilega um sína náð og aðstoð síns heilaga anda. Þess vegna býður frelsarinn oss að biðja, um leið og hann býður oss að vaka; þess vegna er það svo nauðsynlegt fyrir oss, að halda lifandi samfjelagi við drottin, því hann er hin eilífa uppspretta lífsins, og án hans megnum vjer ekkert, og ef vjer vanrækjum að biðja hann, sem hefur orð hins eilífa lífsins, sem sjálfur er upprisan og lífið, hvernig ættum vjer þá að geta haft gát á sjálfum oss, eða forðazt andvaraleysi og andlegan dauða? Vakið því jafnan og biðjið, kæru brœður, svo þjer að boði postulans getið haft gát á sjálfum yður; því að eins getið þjer hlýðnazt þeirri áminningu, sem hann bœtir við í vorum upplesna texta: að hafa gát á allri hjörðinni. Þessi áminning snertir sjer í lagi þá, sem drottinn hefur sett til að vera hirðarar og kennendur í söfnuðinum, og hún er ekki síður áríðandi fyrir þá, en hin, að hafa gát á sjálfum sjer. Þegar postulinn Páll var að gefa Títusi, lærisveini sínum, reglur og áminningar um það, hvernig hann ætti að breyta við söfnuðinn í Krít, þá segir hann: „Sýndu sjálfan þig hvervetna sem fyrirmynd góðra verka, í kenningunni spillingarleysi og röggsemd, heilsusamlega og ólastandi rœðu“; og hefur postulinn með þessum orðum sýnt, hvernig kennendur guðsorða eigi að gæta safnað-

anna, sem sje fyrst og fremst með því, að hafa gát á sjálfum sjer, svo þeir geti verið söfnuðinum til fyrirmyndar í öllu því, sem gott er, og því næst með því, að kenna guðsorð hreint og óblandað af mannasetningum, með því kostgæfilega að uppfræða, áminna og hugga. Það er ekki nóg, að presturinn einungis á helgum dögum, og þegar lagaskyldan þrýstir honum til þess, taki guðsorð fram, og kenni það í söfnuðinum, eða að hann þá einungis hugsi um sálarástand sóknarbarna sinna, en hafi allan hugann endrarnær á veraldlegum sýslunum, og velkist í sorgum og áhyggjum þessa lífs. Sá kennimaður, sem þannig breytir, hefur vissulega hvorki gát á sjálfum sjer nje á hjörðinni. Að vísu hafa kennimenn drottins einnig sinni tímanlegu köllun að gegna, og eptir því, sem til hagar hjer hjá oss, þurfa þeir að gefa sig við mörgum veraldlegum sýslunum, og þetta eiga þeir að gjöra rækilega og samvizkusamlega, en þeir verða jafnframt að hafa sívakandi auga á sinni eigin og safnaðanna andlegu og eilífu farsæld, og því verður guðsorð jafnan að vera lifandi í sálum þeirra, svo það geti orðið uppspretta til eilífs lífs, fyrst fyrir sjálfa þá, og svo fyrir aðra. Guðsorð er hið eina ljósið og hinn einasti leiðtogi, sem getur leitt hinar einstöku hjarðirnar yfir þessa lífs þyrnumstráðu leiðir, sem getur leitt hina villuráfandi sauði á rjettan veg til hins góða hirðisins, til hinna himnesku föðurhúsa. Að vísu eru hjarðirnar margar, söfnuðirnir margir

í kristilegri kirkju, en hið ósýnilega fjelag guðsbarna er þó ekki nema eitt, því þau eru öll sameinuð frelsara sínum í trú og elsku, og inn í þetta sameiginlega, ósýnilega fjelag sanntrúaðra eiga þeir, sem drottinn hefur sett, til að vera tilsjónarmenn safnaðanna, að leiða þær hinar einstöku hjarðir, smærri fjelög, sem þeim er trúað fyrir, svo þar að lokunum verði eitt sauðahús eg einn hirðir. „Hafið gát á allri hjörðinni,“ segir postulinn, og minnir oss með því á, að það er enginn svo lítilmótlegur, enginn svo aumur í söfnuðinum, að presturinn eigi ekki að hafa gát á honum, hafa nákvæmt eptirlit með hans sálarþörfum, og leitast við, að efla hans andlegu og eilífu farsæld. Hann er eins dýru verði keyptur og hinir, sem meira þykir í varið í heimsins augum; Kristur hefur ei síður endurleyst hann en þá með sínum dauða, með sínum friðþægjandi kærleika. Í guðsríki er mikið varið í sjerhverja sál, og frelsarinn hefur sagt, að það, sem gjört væri einum af sínum minnstu bræðrum, það væri sjer gjört. Ó, hversu syndsamlegt er það þá ekki fyrir tilsjónarmenn safnaðanna, að fara að mannvirðingum, að leggja litla rækt við þá, eða jafnvel fyrirlíta þá, sem lítilmótlegir þykja í söfnuðinum, að þykjast upp úr því vaxnir, að hafa nokkur afskipti af aumingjum og fátæklingum. Ó, hversu skakkt skoða ei slíkir menn þessa sína háleitu stöðu, og hvílíka ábyrgð hafa þeir ekki, þegar allsherjar dómarinn krefur þá til reiknings-

skapar fyrir gæzlu þeirrar hjarðar, sem hann fól þeim á hendur. Endurminnizt því jafnan, ástkæru brœður, þessarar postulans áminningar: „Hafið gát á allri hjörðinni“. Látið yður án alls manngreinarálits vera jafnt annt um sanna farsæld og sáluhjálp allra yðar sóknarbarna, hvort sem þau eiga að sjer mikið eða lítið, svo að ekkert þeirra glatist fyrir yðar vangá og hirðuleysi. Í þeirri sömu ástúðlegu rœðu, sem texti vor er tekinn úr, segir postulinn öldungum safnaðarins í Efesus fyrir, að grimmir vargar muni smeygja sjer inn á milli þeirra, þeir er ekki muni þyrma hjörðinni, og þetta megi því fremur hvetja þá til, að hafa jafnan vakandi auga á sjálfum sjer og söfnuðinum. Þökk sje góðum guði fyrir það, að hans kirkja nú hefur náð þeirri staðfestu í heiminum, að vjer, hjer hjá oss, hvorki þurfum að óttast fyrir ofsóknum fyrir Kristí nafns sakir, nje falskennendum, er vilja tæla hjörðina og lokka hana frá hinum góða hirði. En þó megum vjer allt af, kæru vinir, bera kvíðboga fyrir því, að grimmir vargar vilji smeygja sjer inn á meðal vor, þeir er ekki þyrma hjörðinni, og þessir vargar eru allir þeir hlutir, sem vilja draga oss og hjörtu vor frá guði og hans ríki, hvort sem þeir koma innan að úr hugskotum vorum, eða utan að úr spillingu heimsins, og á vorum dögum birtast þeir einkum í búningi holdlegs og veraldlegs hugarfars og í hálfvelgju hjartans. Að vísu hafa það verið bágbornir og hættulegir tímar, þegar menn

urðu að láta líf og eignir í sölurnar fyrir Kristí nafns sakir, þegar falskennendur risu upp í kristninni, og æddu eins og grimmir vargar, til að fæla hjörðina frá hinum góða hirðinum. En saga þeirra tíma segir oss þó, að hið kristilega trúarlíf var þá með fullu fjöri; hún sýnir oss, hvernig hinar miklu guðs hetjur gengu með gleði í dauðann fyrir hið guðlega málefni, og hvernig þær brennandi í andanum, skrýddar trúnni og kærleikanum, íklæddar guðs alvæpni, börðust hinni góðu baráttu, og unnu sigur. Eru þá vorir tímar hættuminni? Eru þá þeir tímar hættuminni, þegar hið kristilega líf er sofnað, og sýnist vera dáið, þegar hið æðra og andlega líf sýnist vera slokknað í áhyggjum og sorgum þessa lífs, þegar kaldsinni og kærleiksleysi er orðið almennt manna á meðal, og skeytingarleysi um kristindóminn og sín sáluhjálparefni hefur gagntekið svo margra hjörtu? Æ, hver mun lífga þessi dauðu hjörtu? Hver mun vekja þessa sofandi öld? Það getur enginn, nema drottinn vor og frelsari, hann, sem er upprisan og lífið, og hefur orð hins eilífa lífsins. Biðjið hann, hjartkæru bræður, sí og æ að vera yður nálægan, og að senda yður sinn anda, svo þjer ekki sjálfir sofnið í þessu almenna andvaraleysi, heldur getið jafnan haft gát á sjálfum yður og á allri hjörðinni, getið vakið hjá henni trúarinnar og kærleikans líf, og leitt hana til eilífs lífs. Og nú fel eg yður, bræður, guði og orði hans náðar, sem máttugt er, enn betur að efla yður og

veita yður arftöku meðal allra heilagra. Góður guð sje yður jafnan nálægur með aðstoð síns heilaga anda; hann láti sitt blessaða náðarorð vera sílifandi í hjörtum yðar, svo þjer getið haft stöðugt gát á sjálfum yður; hann láti það vera sílifandi á vörum yðar til uppfrœðingar, áminningar og huggunar fyrir þá söfnuði, sem hann felur yður á hendur, svo þjer og þeir megi reyna, að það er kraptur guðs til sáluhjálpar hverjum þeim, sem trúir, og öðlizt þá arftöku meðal allra heilagra, sem vor frelsari Jesús Kristur hefur oss afrekað. Bœnheyr oss, himneski faðir, í Jesú nafni. Amen.

---

# Fermingarrœða.

---

## Bœn.

Algóði himneski guð og faðir! þú, sem ert faðir allra. sem börn kallast, bæði á himni og jörðu, vjer áköllum þig fyrir þessi þín börn, sem hingað eru komin til þess, að gjöra grein fyrir því, að þau þekki þig og þann, sem þú sendir, Jesúm Krist, til þess að heita því, að þau vilji hlýðnast þínum boðum og fylgja þeim sáluhjálparvegi, sem þú hefur vísað oss á; æ, virztu að senda þeim anda ráðs og skilnings, sem leiði

þau í allan sannleika. svo að þitt orð verði alla æfi ljós á þeirra vegum, og leiði þau, sem þín börn, yfir torfærur lífsins til eilífs lífs. Leiddu þau, góði faðir, á trúarinnar og kærleikans, á sannleikans og dyggðanna vegi; bænheyr það í Jesú nafni.

Nú er sá dagur upprunninn, nú er sú stund komin, sem þjer, kæru börn, um lengri tíma hafið búið yður undir. Hátíðlegur er þessi dagur fyrir yður, alvörugefin og áríðandi er þessi stund. Þjer eruð nú hingað komin, til að sýna, að þjer vitið, hvað það heit hefur að þýða, sem aðrir gjörðu fyrir yðar hönd, þegar þjer fyrir þá heilögu skírn voruð tekin inn í Krists söfnuð, og þjer eruð komin hingað, til þess sjálf að endurnýja þetta heit. Til þessa heyrir nú fyrst, að þjer látið í ljósi greinilega þekkingu á höfuðlærdómum kristilegrar trúar. Þess vegna eigið þjer nú að afleggja vitnisburð um það, að þjer þekkið veg sáluhjálparinnar, og vitið, hvað til yðar friðar heyrir. Eg vil því, kæru börn! ávarpa yður með þessum orðum postulans (1. Kor. 14, 20.): „Verið ekki börn í skilningi, heldur eins og börn í hrekkvísi, en í skilningi fullorðin“. Já, góður guð gefi það, að þjer allt af megið verða börn í öllu því, sem honum er á móti, svo þjer aldrei af eigin reynslu lærið að þekkja lestina og þeirra ófarsælu afleiðingar, þessi reynsla er of dýrkeypt; fyrir hana missist samvizkunnar friður og sönn hugarrósemi, tímanleg og eilíf farsæld, en yðar beztu auðæfi

og dýrmætustu fjársjóðir hjer á jörðinni sjeu frómlundað og fölskvalaust hugarfar, siðprýði og sakleysi, guðs ótti og elska. Verið börn í hrekkvísi, en verið ekki börn í skilningi; greinileg þekking um það, hvað satt er og gott, hvað illt er og órjett, hvað samkvæmt er guðs heilaga vilja, og hvað honum er gagnstætt, þessi þekking er það, sem á að gæta yðar fyrir villu og afvegaleiðslum, sem á að halda yður stöðugum á dyggðanna vegi, og kenna yður að breyta eptir drottins boðum. Kappkostið því, að vaxa í sjerhverri nytsamlegri þekkingu, en sjer í lagi þeirri, sem mest á ríður, vaxið í vors drottins Jesú Krists þekkingu; í henni eigið þjer sífellt að taka framförum, og byggja kostgæfilega ofan á þann grundvöll, sem hjá yður er lagður; en nú eigið þjer í áheyrn þessa kristilega safnaðar, að gjöra grein fyrir þeirri þekkingu, sem þjer hafið fengið á kristindómsins sannindum, svo það verði heyrum kunnugt, að þjer sjeuð ekki lengur börn í skilningi, heldur hæfileg, til að reiknast í tölu fullorðinna lima kristilegrar kirkju.

---

Svo hafið þjer nú, kæru börn, gjört grein fyrir trú yðar, fyrir þekkingu yðar á guði og hans náð í Jesú Kristi. En til þess að vera sannkristinn, útheimtist meira en að þekkja Krists lærdóm; hann verður að gróðursetjast í hjarta mannsins í lifandi trú, og sá einlægi ásetningur verður að vera stöðugur í sálinni, að vilja fylgja og hlýðnast honum.

Svo útheimtist nú líka af yður sú játning, að þjer meðtakið þennan lærdóm í trúnni, og það loforð, að þjer viljið halda hjörtum yðar fast við guð, og af fremsta megni leitast við, að breyta eptir hans heilögu boðum. Þess vegna vil jeg ávarpa yður með spámannsins (Jerem. 50, 5) orðum: „Komið og nálgizt drottin með eilífum sáttmála, sem aldrei má gleymast“. Heilagt og órjúfandi er það heit, sem þjer nú gjörið góðum guði. Þjer verðið nú að því spurð, hvort það sje yðar einlægur ásetningur, að vilja umflýja allt syndsamlegt og óguðlegt athœfi, hverju nafni sem það heitir, hvaða tímanlegan hagnað sem það kynni virðast að veita yður. Sáttmálinn viðvíkur því einnig, hverju þjer trúið, hvort þjer trúið á guð föður, son, og heilagan anda, hvort þjer með hjartanlegri sannfœringu trúið á þann eilífa, almáttuga og algóða guð, sem er skapari, viðhaldari og stjórnari allra hluta, sem með óendanlegri föðurelsku vakir yfir mannanna farsæld, og sendir þeim af hæðum sjerhverja góða og fullkomna gjöf, og sem sjer í lagi hefur auglýst sína náð með því, að senda sinn eingetna, elskulega son oss til frelsis og sáluhjálpar, og sem sendir sinn anda í þeirra hjörtu, sem hann þar um biðja í trú og auðmýkt. Það loforð, sem þjer nú gjörið, það heit, sem þjer nú strengið, er endurnýjan yðar skírnarsáttmála, það er sáttmáli góðrar samvizku við guð; þess vegna verðið þjer að spurð,

hvort þjer viljið standa stöðug í þessum yðar skírnarsáttmála, hvort þjer viljið trúlega uppfylla þær skyldur, sem hann af yður heimtar. Heilagur og órjúfandi er þessi sáttmáli, því það er drottinn, sem þjer eigið að aðhyllast og hlýðnast; fyrir hans augliti afleggið þjer nú það heit, að þjer viljið þjóna honum alla yðar æfidaga, og helga honum hjörtu yðar og sinni, og aldrei meta neitt meira en það, að vera trú og hlýðin börn yðar himneska föður, fram ganga á hans vegi, leita hans náðar, elska hann af öllu hjarta, setja allt yðar traust á hann í sorg og gleði, í lífi og dauða. Með heilögum sáttmála gangið þjer nú á hönd drottni, sem skynjar allar vorar hugrenningar álengdar, og þekkir grannt allar vorar heimulegustu hugsanir, og sjer, hvernig heitin eru haldin, og sem á síðan mun kalla oss til reikningsskapar. Eilífur og ógleymanlegur á þessi sáttmáli að vera. Það eru mörg önnur heit, sem fljótt verða efnd og fljótt mega gleymast, en þannig er ekki þessu heiti varið; það má aldrei gleymast, það hefur gildi alla yðar æfi; aldrei upprennur sá dagur, að þjer getið sagt: nú er það efnt, sem eg hjet drottni; nú er jeg laus við loforð mitt; því hinu megin grafarinnar verður að því spurt, hvernig þjer hafið haldið heit yðar, hvort þjer hafið verið drottni trú allt til dauðans. Minnizt þess því alla æfi, hverju þjer nú lofið, hvað helzt sem yður mœtir, hvar sem þjer eruð og farið, á meðal hverra sem þjer komið; látið ekkert

skilja yður við guðs og Krists kærleika, hvorki meðlætið með þess tillokkunum, nje mótlætið með þess freistingum, hvorki heimsins nje holdsins ginningar; haldið yður stöðuglega við yðar frelsara, eins í lífsins einveru og í heimsins háværa glaumi, svo að guð allrar gæzku og náðar elski yður sem sín trú og hlýðin börn, og gefi yður að lokunum þau himnesku verðlaun, sem hann hefur sínum börnum heitið. Hann gefi yður til þess sína náð í Jesú nafni.

---

Nú hafið þjer bæði gjört grein fyrir þekkingu yðar á guði og Jesú Kristi, og líka lofað, að vilja breyta þar eptir. Svo er nú þetta heilaga verk þegar á enda. En til þess að vera sannkristinn, útheimtist enn þá eitt, sem er það torveldasta af því öllu, það er: að halda vel það, sem þjer hafið lofað. Nú kemur það fyrir yður, að sýna það í verkinu, að þjer sjeuð sannkristin. Hvað Krists lærdómur heimtar af yður, í hverju hans sanna eðli sje fólgið, það sýnir postulinn Páll oss með þessum orðum (1. Kor. 13, 13): „Svo er þetta þrennt varanlegt, trúin, vonin og kærleikurinn“. Ó, látið jafnan þessar þrjár dyggðir búa og blómgast hjá yður; haldið fast við þá trú, sem þjer hafið viðurkennt; haldið fast við það, sem gott er og guðs vilja samkvæmt; þjer vitið, á hvern þjer trúið, og getið með djörfung sagt: „Jeg skammast mín ekki fyrir Krists evangelíum, því það er kraptur guðs til sáluhjálpar hverjum þeim, sem trúir“. Látið

aldrei lotningu fyrir eilífum guði og hans opinberaða orði veikjast í hjörtum yðar, og komi það fyrir yður, að freistast af efasemdum, þá leitið Jesú, yðar fræðara og frelsara, og látið ljós hans orða tvístra vantrúarinnar myrkrum; gætið að hans dásemdarverkum, að hans heilaga lífi, dauða og upprisu; látið hann tala til yðar með sinni sannfærandi röddu, með sínu guðlega valdi, svo trúin á hann og sannleika hans orða rótfestist í yðar hjörtum. Nær heimurinn og holdið freistar yðar, þá biðjið góðan guð, að senda yður styrk af hæðum; íklæðið yður hans alvæpni, og verið styrk í trúnni, svo þjer getið veitt hinu vonda mótstöðu, og gengið sigurhrósandi út úr freistinganna stríði. Gangið í trúnni og kærleikanum. Þjer þekkið kristindómsins æðsta boðorð: „Elska skaltu drottin guð þinn af öllu þínu hjarta, og náunga þinn sem sjálfan þig“; þjer vitið, að þeim er heitið eilífu lífi, sem gæta þessara boðorða, og nú seinast í dag hafið þjer haft tækifæri til, að hugfesta þessi orð; látið þau aldrei líða yður úr minni, heldur reynið til þess í sjerhverri lífsins stöðu, að breyta eptir þeim. Um ekkert sje yður eins annt og umhugað, og að þóknast yðar himneska föður, að auðsýna elsku til hans í fúsri hlýðni við hans boðorð, og löngun eptir að gjöra hans vilja; hugsið jafnan um hans náð og miskunsemi, um hans eilífu föðurgæzku, sem vakir yfir yður og gætir yðar, og vill leiða yður til eilífs lífs og eilífrar sælu. Látið þessa umhugsun vekja lifandi elsku og þakklæti

í hjörtum yðar við yðar æðsta, himneska velgjörara. Varðveitið kærleiksfullt og hógvært hjartalag, og þó aðrir kunni að gjöra á hluta yðar, þá kefjið niður allar óvildartilfinningar og hefndargirnis-hugsanir, en hafið Jesú mannelskufulla dæmi jafnan fyrir augum. Hvað yður muni mæta á ókominni lífsleið, það er hulið; en hvað sem það verður, hvort yður heldur mætir sorg eða gleði, blítt eða strítt, þá geymið og varðveitið kristilega von, þá setjið alla yðar von til drottins, og treystið honum af öllu hjarta; þá munuð þjer aldrei verða yfirgefin, aldrei ófarsæl, og þá getið þjer hughraust tekið hverju því, sem himnafaðirinn lætur yður að höndum bera, tekið því sem meðali í hans mildiríku forsjónarhendi til eflingar yðar sönnu farsældar. Haldið fast við vonina um eilíft líf; þessi von stráir geislum yfir leiðir vors jarðneska lífs, og hvað helzt þá, þegar heimurinn ekki fær lengur neina huggun veitt. Með þeim sáttmála, sem þjer í dag gjörið við drottin, gefur hann yður fyrirheit um blessun, frið og farsæld hinu megin grafarinnar; því þetta er líka vonarinnar sáttmáli. Svo haldið fast við vonarinnar stöðugu játningu, eins og postulinn að orði kemst, því guð er trúr, og hans loforð bregðast eigi. En vjer erum allir breyskir og brotlegir menn, og vor beztu áform verða stundum að engu. Æ, þegar þjer reynið þennan mannlega ófullkomlegleika, þá minnizt yðar gefna loforðs, og snúið yður sem fyrst til yðar himneska föður með bæn

um styrk og krapta, til að reynast honum trú allt til dauðans.

Gangið í trúnni, kærleikanum og voninni; það er sá vissasti vegur til tímanlegrar gæfu, til annara virðingar og velvildar; og þótt þjer yrðuð að fara á mis við þessi gæði, þá vinnið þjer samt þau gæði, sem mest er í varið, frið og rósemi samvizkunnar, fullvissu um guðs velþóknun, og huggunarríka von um sælufull kjör í eilífu lífi. Góður guð sje með yður alla daga; hans föðurlega forsjón vaki yfir yður og gæti yðar, og leiði yður sem sín elskuleg börn gegnum líf og dauða til eilífs lífs; hann bænheyri það í Jesú nafni. Amen.

---

# Tvær skriptaræður (fluttar 1854).

## I.

Náð sje með yður og friður frá guði föður og drottni vorum Jesú Kristi.

*Eg er vínviðurinn, þjer eruð greinarnar; sá, sem mjer er áfastur og eg er með, hann ber mikinn ávöxt, því án mín megnið þjer ekkert.*

Með þessum huggunarfullu orðum ávarpaði Jesús lærisveina sína (Jóh. 15, 5.), og tók með þeim fram það hið nána og innilega samband, sem var milli hans og þeirra. Hann og þeir lifðu einu og hinu sama lífi, eins og trjeð og greinar þess. Að vísu getur trjeð lifað án greinanna, en greinarnar skrælna upp og deyja út af, ef þær eru höggnar af trjenu. Eins er Jesús jafn-dýrðlegur og guðdómlegur án vor mannanna, en hann vill ekki vera án vor, eða skilja við oss, af því hann veit, að vjer munum þá visna upp eins og afhöggnar greinar. Þess vegna ljet frelsarinn eptir sig ekki einungis sinn guðlega lærdóm, heldur og *kvöldmáltíðarsakramentið*, og ætlaði með því, að vernda sameiningu vora við sig, og við halda henni sem bezt og innilegast. Þetta heilaga sakramenti er sá ljósasti og áþreifanlegasti vottur um hans hjartanlegu löngun eptir að sameina sjer lærisveina sína hjer á jörðinni, styrkja þá og hugga. Lausnari vor þekkti mannlegt líf og mannleg hjörtu; hann vissi, að hjörtu vor eru veik fyrir, og að líf vort er fullt af freistingum, áhyggjum og sorgum, og hann leit með nærgætnum og kærleiksfullum augum fram á það, að vjer mundum þurfa styrkingar við í stríðinu, að vjer mundum þurfa á nýjum kröptum að halda í baráttu trúarinnar. Þess vegna til bjó hann oss sína heilögu kvöldmáltíð, og ætlaðist til, að vjer með því, að neyta hennar, skyldum fá nýtt fjör og endurnœringu fyrir vort andlega líf, skyldum fá að

reyna og finna til þess, að inndæll og óyggjandi sannleiki er fólginn í þessu hans fyrirheiti: „Sjáið! eg er með yður alla daga allt til enda veraldar“. Ástúðlegur og kærleiksfullur var vor guðdómlegi frelsari, þegar hann í fyrsta sinni, þá nótt sem hann var svikinn, safnaði lærisveinum sínum kring um sitt náðarborð, og gaf þeim brauðið og vínið að eta og drekka. En jafnástúðlegur og kærleiksfullur er hann í hvert sinn, sem hann endurnýjar þessa máltíð, í hvert sinn, sem hann segir til sinna lærisveina: „Gjörið það í mína minningu“. Jesús vissi, að hvernig sem tímarnir mundu breytast, og hversu ólíkir sem borðgestirnir kynnu að verða að ytra áliti, að ríkidœmi og metorðum, þá mundi þó sama syndabyrði liggja á allra herðum, og að hún mundi hjá hverjum þeim, sem fyndi til sinnar andlegu þarfar, vekja sára löngun eptir því brauði, sem af himnum kemur, og hann vildi, að kærleikans og náðarinnar máltíð skyldi vera athvarf allra þeirra, sem hungra og þyrsta eptir rjettlætinu, sem langar til að sameinast frelsara sínum í trú og elsku, en finna til vanmáttar og veikleika síns, og í auðmýkt játa, að þeir eru ónýtir þjónar, að þeir eru syndarar, og að þá vantar þá hrósun, sem hjá guði gildir. Þess vegna hefur hann enn í dag sína náðarmáltíð tilbúna handa öllum sínum lærisveinum, og býður sinn frið og sína huggun, eins fátœkum sem ríkum, vesölum sem voldugum, foreldrum og börnum,

yfirboðnum og undirgefnum, því allir erum vjer eitt í Jesú Kristi, allir eigum vjer að vera greinar á honum, sem er sá sanni vínviður. En mega ekki margir játa, að þeir eru eins og visnar greinar? að synd og sollur veraldarinnar hefur slitið þá frá frelsaranum? og að þeir geta ekki lifnað við aptur nje borið ávöxt, nema þeir að nýju sameinist honum, sem hefur lífið, hið eilífa lífið, í sjer. Æ, þetta megum vjer allir hver með öðrum játa; vjer finnum, að vjer erum ekki svo innilega sameinaðir vorum frelsara í trúnni og elskunni, eins og vjer ættum að vera og gjarnan vildum vera, og þessi tilfinning hlýtur að vekja auðmýktarfulla iðrun í hjarta sjerhvers kristins manns, kenna honum, að taka með fögnuði móti sjerhverjum geisla guðlegrar náðar, og vekja hjá honum löngun eptir, að neyta drottins kvöldmáltíðar. Því heitar og innilegar sem hinn trúaði elskar lausnara sinn, því næmari og viðkvæmari er samvizka hans, því betur finnur hann, að það eru ekki einungis stórglæpir og lestir, sem gjöra oss óhæfilega fyrir samfjelag við frelsarann, heldur einnig kaldsinni og kærleiksleysi, sem læðist inn í hjartað, trúarskortur og skeytingarleysi um sannleikann og dyggðina, og sjerhver sljóvgun samvizkunnar. Með alvarlegri sjálfsprófun kemst hinn trúaði að raun um, að hann hefur ekki einungis optlega hrasað, heldur og fallið, og þessi iðrunartilfinning knýr hann til, að flýja til Jesú, sem sagt hefur: „Komið til mín allir þjer,

sem erfiðið og eruð þunga hlaðnir; eg skal endurnæra yður og gefa sálum yðar hvíld“.

Þegar þjer nú, dýrkeyptu guðs vinir, með þessari tilfinningu í hjörtum yðar nálgizt Jesú náðarborð, þá munuð þjer fá hugsvölun, frið og hugarrósemi; því Jesús lifði og dó fyrir þá, sem finna til vanmáttar síns og breyskleika og með heitum iðrunartárum kannast við syndir sínar, en trúa því og treysta, að þeir muni finna náð og fyrirgefningu hjá kærleikans og miskunsemdanna föður í hans nafni og fyrir hans forþjenustu sakir, sem bar vorar syndir upp á trjeð. Þess vegna setti Jesús kveldmáltíðina í svo náið samband við sinn dauða, til þess vjer, svo opt sem vjer neytum hennar, mættum líta vorum trúaraugum upp til hans, og treysta því af hjarta, að hann hefur friðþægt heiminn við guð, að af guðs hálfu vantar ekkert til þess, að vjer getum orðið teknir til náðar. „Komið, því að nú eru allir hlutir til reiðu“, segir hinn eilífi kærleiki; en hann vill líka, að allir hlutir skuli vera til reiðu hjá oss, að vjer í bæn og andakt skulum bera fram fyrir hann alla vora sálarþörf, og leyfa hans anda inngöngu í vor hjörtu; hann vill, að vjer skulum deyja syndinni og lifa sjer, eins og hann fyrir oss er dáinn og upp aptur risinn; hann vill, að vjer skulum neyta sinnar heilögu kveldmáltíðar af kærleika, og að þessi kærleiki hafi áhrif á allt vort hugarfar. Sælir

eruð þjer, dýrkeyptu guðsvinir, ef þjer í hjörtum yðar finnið innilega löngun eptir, að sameinast yðar guðdómlega frelsara; þá mun nautn hans náðarmáltíðar verða yður til blessunar; þá mun hún styrkja hjá yður trúna á hann, og glœða elskuna til hans, og veita sálum yðar hvíld og frið. Hátíðleg og gleðileg er þá þessi stund fyrir yður alla, en ekki sízt fyrir yður, mínir ungu vinir, sem nú hafið áformað, í fyrsta sinn að verða borðgestir við drottins kvöldmáltíð. Þjer hafið nýlega heitið guði og frelsara yðar trú og hollustu í áheyrn kristilegs safnaðar. Nú heyrir enginn yðar heit nje yðar bœnarandvörp, nema h a n n, sem er hjartnanna og nýrnanna rannsakari. Æ, biðjið hann af öllu hjarta, að vera hjá yður, að fyrirgefa yður barnalegan breyskleika, að glœða hjá yður trúna og elskuna til hans, og þakklæti við hann fyrir hans óumrœðilegu elsku til yðar; biðjið hann, að gæta yðar og vernda yður, svo gjálífi og sollur veraldarinnar aldrei geti dregið hjörtu yðar frá honum. Undir því er yðar andlega og eilífa farsæld komin, að þjer haldið yður fast við frelsara yðar, og reynizt honum trúir. Æ, svo gefi það góður guð, að þessi frelsarans heilaga máltíð megi verða yður öllum sannarleg náðarmáltíð, friðarins og huggunarinnar, kærleikans og lífsins máltíð. Bœnheyr það, himneski faðir, í Jesú nafni. Amen.

---

## II.

*Náð sje með yður og friður frá guði föður og drottni vorum Jesú Kristi.*

Að vera í *náð* hjá guði og finna til hans friðar í hjarta sínu, er hið œðsta og háleitasta hnoss, sem oss mönnunum hjer í lífi getur hlotnazt, og í því er allur sannur unaður og sæla lífsins fólgin, eins og að hinu leytinu öll eymd og ófarsæld er fólgin í því, að vera ósáttur við guð, og vita af sjer í hans ónáð, því þá getur maðurinn ekki haft sannan frið í sálunni, og hjartað finnur hvergi hvíld, því hvíld og frið er ekki að finna hjá öðrum en guði, sem er alsæll, og er hin eilífa uppspretta lífsins. Þetta reynum vjer allir, dýrkeyptu guðs vinir, fyr eða síðar á lífsleið vorri; fyr eða síðar verðum vjer þess varir, að vjer erum aumir og ófarsælir, nema vjer sjeum í náð hjá guði, og leitum oss hœlis og huggunar hjá honum. Hversu skammt erum vjer ekki komnir áleiðis á vegferð vorri hjer í lífi, þegar vjer verðum þess varir, að heimselska og holdlegar girndir vilja draga oss niður til jarðarinnar, að sál vor þreytist og örmagnast, þegar hún ætlar að lypta sjer upp til andanna frelsis; að lögmálið í vorum limum einlægt á í stríði við lögmál vors hugskots og „hertekur oss“, eins og Páll postuli segir, „undir

lögmál syndarinnar", meðan vjer ekki höfum fengið styrk af hæðum, til að slíta fjötur syndsamlegra girnda og tilhneiginga. Já, vjer finnum, að syndin kemur innan að úr hjörtum vorum; í hjörtum vorum vex illgresi þetta, og hversu fljótt vex það ekki; hversu fljótt ber það ekki blóm og ávexti; en blómin eru eitruð, og ávextirnir eru dauðinn. En hversu seint þar á mót vex hið góða sæðið; hve sjaldan nær það fullum vexti hjá oss. Æ, drottinn, þegar heimurinn hrósar vorum dyggðum, og byrgir augun fyrir vorum yfirsjónum, hvað erum vjer þá annað en aumir syndarar í þínu heilaga augliti? Þegar vjer rannsökum hjörtu vor, megum vjer þá ekki játa, að vor fyrirtœki einatt spruttu og stjórnuðust af óhreinum og eigingjörnum hvötum, af heimselsku og hjegómadýrð? að vjer einatt veittum freistingunum litla mótspyrnu, hrösuðum og syndguðum? Æ, hvernig getum vjer þá nálgazt þig, heilagi faðir, nema með þessari hjartans andvörpun: drottinn, gakk ekki í rjettlætisdóm við oss, því fyrir þjer er enginn maður rjettlátur. Megum vjer þá ekki allir finna til vanmáttar vors og óverðugleika, auðmýkja oss fyrir vorum himneska föður, og með hrœrðum hjörtum biðja: guð, vertu mjer syndugum líknsamur! Kenndu mjer að breyta eptir þínum vilja, því þú ert minn guð; láttu þinn góða anda leiða mig á rjettan veg, á sannleikans, friðarins og lífsins veg. Þessi bœn, þessi auðmjúka tilfinning hjartans er vegurinn til guðs friðar og hans náðar; þessi til-

finning vors eigin vanmáttar og breyskleika, þessi órósemi samvizkunnar, þegar vjer hrösum, þessi heimulegi ótti fyrir eilífu rjettlæti, sem aldrei sefur, sannfœrir oss um, að vjer erum náðarþurfar, og þurfum œðri aðstoðar við, og hún knýr oss til, að leita guðs friðþægjandi náðar í Jesú Kristi með iðrun og trúnaðartrausti, og hann hefur heitið oss sinni náð, þegar vjer leitum hennar af hjarta, og með trúuðu hugarfari hagnýtum oss þau náðarmeðul, sem hann af gœzku sinni hefur gefið oss til huggunar og helgunar. Þjer eruð komnir hingað, kærir brœður og systur, til að hagnýta yður það helgasta og háleitasta náðarmeðal, sem kristin trú hefur að veita, til að neyta þeirrar náðarmáltíðar, sem betur en allt annað sýnir oss, að hinn eilífi kærleiki „opinberaðist í Jesú Kristi, og friðþægði heiminn við sjálfan sig“. Já, þetta er endurminning Jesú friðþægjandi kærleika, og hún setur oss lifandi fyrir sjónir hans óendanlegu elsku til vor, syndugra manna; hún fullvissar oss um, að vjer vegna Jesú friðþægingar megum vænta miskunar og náðar hjá vorum himneska föður, og þessi sannfœring styrkist því betur í hjörtum vorum, sem vjer með alvarlegri sjálfsprófun betur höfum lært að þekkja vorar syndir, og því innilegar sem vjer höfum hryggzt og angrazt af þeim. Þennan himneska frið og þessa föðurlegu náð fram býður nú drottinn yður, kæru vinir, ef þjer komið hingað rjettilega undirbúnir, ef þjer með angri og iðrun fyrir yðar yfirsjónir endurminn-

izt Jesú kærleika, ef þjer í trúaðri endurminningu nálgizt hans kross og leyfið hans anda inngöngu í yðar hjörtu. Frá hjarta vors deyjandi lausnara renna himneskir huggunarstraumar inn í iðrandi hjörtu hans trúuðu játanda; frá hans mildu miskunarvörum streyma friðþægjandi friðargeislar inn í sálir allra þeirra, sem hungra og þyrsta eptir rjettlætinu, og hann ávarpar þá með þessum fagnaðarríku orðum: „Komið til mín allir þjer, sem erfiði og þunga eruð hlaðnir; eg skal endurnæra yður“. En þessi náðarmáltíð er ekki einungis trúarinnar máltíð, heldur og kærleikans máltíð; hún er sprottin af kærleika, og hún á að vekja kærleika. „Hjartanlega hefur mig langað til, að neyta með yður þessarar páskamáltíðar, áður en eg líð“, sagði lausnari vor við lærisveina sína, þegar hann til skipaði kveldmáltíðarsakramentið; enn þá einu sinni vildi hann áminna, hugga og blessa sína ástkæru vini, áður en hann skildi við þá að sýnilegum návistum. En hann hugsaði ekki einungis um þá, heldur og um alla sína trúaða. Einnig vor vegna langaði hann hjartanlega til, að neyta þessarar páskamáltíðar, og langar enn til, að fá oss að sínu náðarborði, sem sína sönnu lærisveina, sem iðrandi og trúaða ástvini. Ætti þá ekki endurminning Jesú elsku að hræra vor hjörtu og vekja hjá oss hjartanlega löngun eptir að sameinast honum, heitustu elsku og innilegasta þakklæti? Trúnaðartraustið á guðs náð í Jesú Kristi hlýtur að vekja hjá oss innilegan kærleika;

íhugun Jesú óendanlegu elsku hlýtur að vekja hjá oss heitasta þakklæti, og þessi kærleiksfulla og þakkláta endurminning guðlegs kærleika, þessi innilega sameining við hann, sem er kærleikurinn sjálfur, er höfuðtilgangur hinnar heilögu kveldmáltíðar. Og þegar vjer af innsta grunni hjartans, með lifandi trú og kærleika, með heitri bæn og einlægum vilja, umföðmum frelsara vorn, hans boðorð og hans friðþægingu, svo að vjer viljum lifa og deyja með honum, þá neytum vjer hinnar heilögu kveldmáltíðar verðuglega og sem hans sannir lærisveinar; og ef vjer lifum í Kristi og Kristur í oss, þá höfum vjer og hans hugarfar, hans kærleiksfulla hjartalag, þá elskum vjer hann í vorum meðendurleystu bræðrum, eins og vjer í honum elskum guð. Í þessum sannkristilega kærleika sýnir hin sanna og helgandi trú sjer í lagi sinn krapt og sínar verkanir, og hann á þessi heilaga náðarmáltíð að lífga og glæða hjá oss.

Ef þjer nú, kæru bræður og systur, finnið í hjörtum yðar einlæga elsku til frelsarans, einlægt angur af breyskleika yðar og yfirsjónum, og komið hingað, til að fá frið og huggun og endurnæringu fyrir yðar mæddu hjörtu, þá mun friðarins guð „fylla yður með öllum fögnuði og friði í trúnni, svo að þjer hafið gnóglega von fyrir krapt heilags anda“, von um syndanna fyrirgefningu, guðs náð og eilífa sáluhjálp, og þá boða eg yður samkvæmt

Jesú náðarlærdómi fyrirgefningu allra yðar synda í nafni guðs föður, sonar, og heilags anda. Amen.

---

# Hjónavígsluræður (fluttar 1854).

## I.

Í Jesú nafni. Elskulegu brúðhjón! Það er hátíðleg stund, þegar brúðhjón, gagntekin af sömu tilfinningum, gagntekin af innbyrðis-elsku, lypta hjörtum sínum í bœn og andakt upp til þess algóða ljósanna föður, sem ljet þau hittast á lífsins vegi, og sameinaði þau í kærleikanum. Það er hátíðleg stund, þegar endurminning umliðna tímans þannig sameinast við vonir ókomna tímans, endurminning guðs náðarríku handleiðslu á umliðna tímanum við von um hans mildiríku hjálp og aðstoð á ókominni lífsleið, við von um, að geta notið gleðinnar í sameiningu, og með því móti aukið unað og fögnuð lífsins. Þetta er hátíðleg stund fyrir ykkur, elskulegu brúðhjón, og jafnframt full af alvöru, því nú ætlið þið að heita hvort öðru æfilangri elsku og hollustu; nú ætlið þið að gjöra þann sáttmála hvort við annað, sem gefur ykkur vegleg fyrirheit, en

leggur ykkur líka mikilvægar skyldur á herðar; nú ætlið þið að ganga í þann fjelagskap, sem hefur áhrif á ykkar tímanlegu og eilífu farsæld. Já, í sannleika er þetta hátíðleg stund fyrir ykkur og full af alvöru; nú verður líka líf ykkar alvörufyllra en áður, og fær œðri þýðingu, því hjer eptir eigið þið að stunda hvort annars velferð af fremsta megni, og leitast við að gjöra hvort öðru lífið svo ánœgjulegt, sem auðið er. Á þessari fyrir ykkur svo hátíðlegu stundu vil eg ávarpa ykkur með þessum orðum Páls postula: „*Verið glaðir í voninni, þolinmóðir í þjáningunni, staðfastir í bœninni*“ (Róm. 12, 12.).

*Mannlegar* vonir eru eins margvíslegar, eins og þær eru óáreiðanlegar, og opt, þegar það lítur svo út, sem þær ætli að rœtast, skreppa þær úr höndum vorum og líða burt eins og reykur, og kemur þetta einatt til af því, að eigingirnin elur slíkar vonir, og að þær sjálfar snerta einhverja tímanlega hagsmuni, og eru því hverfular í eðli sínu. Það er ekki þess háttar von, sem postulinn meinar, þegar hann segir: „Verið glaðir í voninni“. Það er til önnur œðri og vissari von, sem er hafin yfir breytingar og byltingar þessa lífs, sem er byggð á guði, byggð á guðs kærleikseðli, á hans alvitru og mildiríku forsjón. Það er fánýt von, þó hún einatt freisti vor mannanna í meðlætinu, að hugsa, að af því oss hingað til hefur gengið allt að óskum, þá munum vjer af sjálfsdáðum geta

aflað oss allra lukkunnar gœða, og notið sífelldrar gleði og gæfu. Þess vegna hættir svo mörgum við því á meðlætisdögunum, að gleyma gjafaranum, meðan þeir neyta gjafanna, gleyma því, að öll góð og fullkomin gjöf kemur hjer að ofan frá föður ljósanna; við það dragast hjörtu þeirra frá himninum, og fjötrast af hinu jarðneska, og geta þeir því ekki notið sannarlegrar gleði í meðlætinu, heldur er von þeirra jafnan blönduð ótta og óþreyju. Sú von þar á móti, sem byggð er á guði, fyllir hjarta mannsins með friði og fögnuði, því hún byggist á þeirri fullvissu, að vjer þiggjum lán og gœði lífsins af guðs mildiríku föðurhendi, og að hann muni jafnan halda sinni verndarhendi yfir þeim, sem óttast hann og elska. Þessi von fullvissar oss um, að drottins blessun muni búa hjá þeim hjónum, sem fram ganga fyrir hans augsýn í kærleikanum, og þiggja hans velgjörðir með trúuðum, auðmjúkum og þakklátum hjörtum. Verið glöð í þessari von til drottins, kæru brúðhjón; hún getur ekki brugðizt, því hún er byggð á guðs eilífa náðareðli og hans alvitru stjórn. Þessi von mun gjöra ykkur þolinmóð í þjáningunum. Þeim, sem ekki setja von sína til drottins, hættir við því, undir eins og eitthvað mótdrœgt kemur fyrir þá, að mögla á móti guðlegri forsjón; þeir vænta þess og ætlast til þess, að sjerhverri mótlætisbyrði verði strax af þeim ljett, sjerhver þjáning undir eins linuð, og sjerhvert böl og andstreymi bœtt og burt numið.

Þetta er fánýt von, af því hún byggist ekki á undirgefni undir guðs gæzkuríka vilja, ekki á trausti til hans vísdómsfullu handleiðslu; og þessi fánýta von vekur hjá manninum óþreyju og óþolinmæði í þjáningunum, kaldsinni og kærleiksleysi. Sú von þar á móti, sem byggist á guði, leiptrar niður til vor hjer að ofan, og stráir huggunargeislum á allan myrkva og mæðu þessa lífs, og hún vekur þolinmæði, djörfung og hugprýði í hjörtum elskandi hjóna, því hún fullvissar þau um, að allir guðs vegir sjeu einber miskun og trúfesti, að hann, sem sameinaði þau í helgri hjónabandsstjett, muni svoleiðis blanda blíðu og stríðu, sorg og gleði í sambúð og samveru þeirra, eins og hans eilífa speki sjer að bezt hentar, til að efla þeirra fullkomnun, þeirra frið og farsæld; hún sannfærir þau um, að himnafaðirinn vill reyna trúnaðartraust þeirra, og að hann lætur allt þjena þeim til góðs, sem hann elska. Verið því glöð í voninni og þolinmóð í þjáningunni. Þótt vjer óskum þess af alhuga, að hönd drottins hlífi ykkur við allri mæðu og mótlæti, þá er ekki við því að búast, að þið getið fremur öllum öðrum farið varhluta af einhverri sorg; því meðan vjer lifum hjer á jörðinni, getum vjer ekki vænt þess, að lukkunnar blíða brosi ávallt á móti oss. En þegar hinn strangi reynslutími kemur, hvernig ættu þá hjónin að geta verið glöð og ánægð, hvernig ættu þau að geta borið hina þungu byrði með kristilegri stillingu og jafnaðargeði, ef þau gætu ekki

með fullkomnu trúnaðartrausti sett von sína til hins eilífa alheimsstjórnara, og falið sig og öll sín efni hans föðurumsjón á hendur? Já, kæru brúðhjón, sönn gleði og sönn hjónaást getur einungis orðið stöðug og varanleg hjá hinum trúaða, hjá þeim, sem trúin gefur krapta til, að sjá og viðurkenna drottins gæzku, ekki einungis þegar hann lætur oss ganga allt að óskum, heldur einnig þegar sorgin lokkar tár af augum vorum. Svoleiðis verður það og að vera; af áreynslu trúarinnar sprettur vonin, og vonarinnar geislar spegla sig opt í tárum og trega. Hinn trúaði er vonglaður; og ef elska ykkar byggist á trúnni, þá við helzt hún í voninni, í von um ævarandi sambúð, ekki einungis í þessu, heldur og í öðru og betra lífi. Verið því, kæru brúðhjón, að postulans boði, glöð í voninni, þolinmóð í þjáningunni, og staðföst í bæninni. Bænrækninn er skilyrði fyrir því, að geta verið glaður í voninni og þolinmóður í þjáningunni; og eg þarf því síður að brýna fyrir ykkur bænræknina, sem eg er viss um, að þið, eins og hver sannkristinn maður, opt og iðulega hafið reynt, hvílíkan frið og fögnuð, hvílíka huggun og sælu það veitir, að snúa sjer til guðs í bæninni. Eins og bænin sprettur af von til guðs og trúnaðartrausti, eins er hún líka hið bezta meðal til að styrkja vonina og þolinmæðina; hún lyptir oss á vængjum vonarinnar upp í hæðirnar, og sameinar oss vorum himneska föður, og þaðan snúum vjer aptur niður í baráttu lífsins, styrktir

og huggaðir og út búnir með djörfung og þolinmæði, íklæddir guðs alvæpni, eins og postulinn að orði kemst. Eins og loptið, sem vjer öndum að oss, er nauðsynlegt, til að við halda voru líkamlega lífi, eins er bænin nauðsynleg, til að við halda voru andlega lífi, því hún sameinar oss hinni eilífu lífsins uppsprettu, og þaðan andar sálin að sjer hinu æðra og eilífa lífi. Af hverju ætti líka hjónaástin að lífgast og við haldast, nema í sameiningunni við drottin, sem er kærleikurinn, sem hefur út hellt sinni elsku í vor hjörtu og gróðursett þar kærleikann? Þegar þið því, kæru brúðhjón, eruð glöð í voninni, þolinmóð í þjáningunni, og staðföst í bæninni, þá verður hjónaást ykkar hrein og varanleg, því hún byggist þá á guði, og þegar þið í hans elsku elskizt af hjarta, þá fellur ykkur ljett að gegna hjónabandsins skyldum, þá berið þið fúslega hvort annars byrði, þá kennið þið hvort til annars meina, þá stundið þið hvort annars tímanlegu og eilífu farsæld; og á æfinnar kveldi getið þið þá með gleði og þakklæti við drottin endurminnzt þessarar stundar. En „vonarinnar guð fylli ykkur með öllum friði og fögnuði í trúnni, svo þið hafið gnóglega von fyrir krapt heilags anda“; hann láti sinn frið og sína elsku búa hjá ykkur; hann haldi sinni verndarhendi yfir ykkur, og breiði sína blessun yfir hjónaband ykkar, svo það verði honum til dýrðar, en ykkur og öðrum til farsældar hjer og síðar meir.

Bœnheyr þú það, himneski faðir, í Jesú nafni. Amen.

---

## II.

---

Náðin drottins vors Jesú Krists sje með yður. Amen.

Af guðspjallasögunum sjáum vjer, að vor guðdómlegi frelsari var við staddur við brúðkaup nokkurt í Kana í Galílæu. Þetta er þýðingarmikið og lærdómsríkt fyrir oss, eins og sjerhvert atvik í lífi lausnara vors. Með þessari nálægð sinni hefur hann ekki einungis helgað hjónabandið yfir höfuð, heldur og fullvissað oss um, að hann vilji vera með blessun sinni nálægur, hvar sem brúðhjón eru saman vígð í kristilegri trú og kærleika. Og með því nú vor guðdómlegi frelsari hefur endurnýjað og staðfest þá stjett, sem guð í öndverðu til setti, þá sjáum vjer, að meðal kristinna manna hefur þessi stjett sjerlega þýðingu og helgi, sem heiðnar þjóðir ekki þekkja, og viljum vjer, kæru brúðhjón, hugleiða þetta betur, með því að skoða hjónabandið frá kristilegu sjónarmiði.

Það er almennt viðurkennt, að hjónabandið er

undirstaða almennra fjelagsheilla, skilyrði fyrir góðum siðum og rjettu barnauppeldi, uppörvun til iðni og atorku, meðal til velgengni, frama og farsældar. Þegar vjer nú betur aðgætum tilgang hjónabandsins, þá er hann fólginn bæði í fjölgun mannkynsins og farsæld hjónanna sjálfra. „Aukizt þið og margfaldizt og upp fyllið jörðina“, sagði guð við hin fyrstu hjón. En guð ætlaðist til, að ásamt með fjölgun mannkynsins skyldi sannleiki og dyggð út breiðast á jörðunni, og að innbúar jarðarinnar skyldu vera skynsemigæddar verur, skapaðar í guðs mynd, skapaðar til að ráða yfir jörðinni, samkvæmt hans gæzkuríka vilja. Sameining hjónanna átti ekki að byggjast á snöggum og breytilegum geðshræringum, heldur á æfilangri tryggð og vináttu; börnin áttu ekki einungis að fæðast og forsorgast, heldur menntast, uppfræðast og upp alast í aga og umvöndun drottins. Barnauppeldið er þannig hjónabandsins fyrsti tilgangur; hvernig það á að vera lagað, verður hjer ekki útlistað; einungis vil eg geta þess, að það á ekki einungis að upp ala þau, til að verða góðir og nytsamir borgarar í mannlegu fjelagi, heldur til að verða trúir þegnar guðsríkis, til að verða guðsbörn. Hinn annar tilgangur hjónabandsins er sá, að efla fullkomnun og farsæld hjónanna sjálfra. „Það er ekki gott, að maðurinn sje einsamall“, sagði guð, þegar hann hafði skapað manninn; „vjer viljum gjöra honum hjálp, þá sem með honum sje“. Þegar guð í sköpuninni að greindi

mannkynið í tvennt, þá var það ekki til að að skilja það, heldur til að sameina það. Maður og kona áttu hvort um sig að vera helmingur mannkynsins, og sameinast með óslítandi kærleiksbandi, og út úr þessari kærleiksfullu og sælufullu sameiningu átti guðs jarðneska mynd að skína, og þessi guðs mynd átti að fullkomnast við það, að maður og kona lifðu eins og guðsbörn fyrir hans augsýn í kærleikanum, og með hlýðni sinni og sameiningu við hann áttu þau að styrkja og helga sameiningu sína hvort við annað. Konan átti að vera mannsins hjálp, ekki einungis í því, að sjá um hús og heimili og eignir, heldur átti hún og að vera hans ráðaneyti og huggun í sjerhverju andstreymi og böli lífsins, eins og líka hann átti að vera hennar stoð og stytta. Í andlegu og veraldlegu tilliti eiga því hjónin að vera sem einn maður fyrir sameiginlega trú á guð, sameiginlegt traust á hans mildiríku forsjón, sömu ástundun eptir að hlýðnast og þóknast honum. Innilega sameinuð með óslítanlegu bandi ævarandi kærleika eiga þau að fylgjast að á sáluhjálparinnar vegi, þangað til dauðinn að skilur þau, þó ekki nema um tíma, til að sameina þau aptur á sælunnar landi, hvar að sönnu hjónaband ei mun framar vera til, en þó sameining þeirra sálna, sem elskast í guði.

Vorir fyrstu foreldrar, sem sjálfur guð hafði sameinað, áttu að lifa í samfjelagi við hann, og vera líkir honum, sem er sá eilífi kærleiki; af honum átti hjónaást þeirra að lífgast og við haldast.

Og enn í dag á hjónabandið að helgast af elskunni til guðs og trúnni á vorn frelsara, fyrir hvern guðs mynd í oss aptur á að lagast og endurnýjast. En eins og hjónaástin á að eiga rót sína í elskunni til guðs, eins er hún líka ekki einungis ein grein hins almenna kristilega bróðurkærleika, heldur og stofn þessa kærleika. Af hjónaástinni sprettur elska foreldra og barna, bræðra og systra, allra, sem heyra til sömu ættar, og loks allra manna, því allir erum vjer komnir af einum ættstofni, af þeim fyrstu hjónum. En til þess, kæru brúðhjón, að vjer getum gjört oss rjetta hugmynd um elsku hjóna í kristilegu hjónabandi, verðum vjer að skoða þessa elsku sem eina grein hins almenna kristilega bróðurkærleika, því hvortveggja hefur sömu einkenni, og postulinn Páll lýsir þeim, þar sem hann segir: „Kærleikurinn er umburðarlyndur, góðviljaður, ekki öfundsjúkur, ekki raupsamur, ekki hrokafullur, gjörir ekkert ósæmilegt, er ekki sjerplæginn, ekki reiðigjarn, tilreiknar ekki illt, gleðst ekki af órjettvísi, en elskar ráðvendni, er þagmælskur, trúir öllu, vonar allt, umber allt“. Þennan kærleika eigum vjer að sýna náunga vorum; og hver er vor náungi, sje það ekki vor ektamaki, sem vjer erum sameinaðir með náttúrunnar sterkustu tilhneigingum, með hjartans innilegustu tilfinningum, með hinu helgasta bandi mannlegra og guðlegra laga? En postulinn Páll kennir oss, að skoða hjónabandið frá enn þá æðra og háleitara sjónarmiði, þar sem hann

samlíkir því við það samband, sem er milli Krists og hans safnaðar. Vor guðdómlegi frelsari hefur ekki einungis staðfest guðlegt gyldi hjónabandsins, heldur og sýnt oss, hvernig það á að vera, með því hann er sjálfur brúðgumi sinnar kristni, og lætur sinn guðlega kærleika til hennar lýsa sem fyrirmynd hinnar sönnu hjónaástar? „Þjer menn", segir postulinn, „elskið konur yðar, eins og Kristur elskaði söfnuðinn, og gaf sig sjálfan út fyrir hann, til að helga hann"; og um konurnar segir hann: „en eins og söfnuðurinn er undirgefinn Kristi, þannig sjeu og konurnar mönnum sínum í öllu". Þegar elska mannsins til konunnar er, eins og hún á að vera, þá virðir hann hana og verndar, vorkennir hennar vanmætti, og hefur Krist fyrir augum sjer í allri breytni sinni við hana; og þegar elska konunnar til mannsins er, eins og hún á að vera, þá er hún manni sínum undirgefin; en þessi hlýðni sprettur ekki af þrælsótta, heldur af barnlegum og bljúgum elskutilfinningum, og hlýðni hennar er einkanlega fólgin í því, að hún gefur manninum allt hjarta sitt, að hún lifir í honum og fyrir hann, eins og sál hins trúaða lifir í Kristi og fyrir hann. Hlýðni konunnar á að vera byggð á elsku, nákvæmni og vorkunsemi mannsins; hún á ekki að vera þrældómsok, heldur kærleikans ok. Eins og söfnuðurinn eflir sína eigin farsæld með því, að hlýða Kristi, eins eflir konan sína farsæld með því, að fara að ráðum mannsins, og með skynsemi og kærleika leit-

ast við, að þóknast honum. Farsælt er það heimili, þar sem hjónin lifa saman í kristilegum kærleika, og eru hvort öðru til fyrirmyndar í dyggð og guðsótta, í iðjusemi og nægjusemi, í auðmýkt og sparsemi, í ráðvendni og skírlífi, í þrifnaði og þolinmæði, þar sem þau á morgnana rísa úr rekkju með bæn til guðs, brjóta sitt brauð með þakklæti við hann fyrir þá björg og blessun, sem hann veitir þeim, þar sem þau á kveldin aldrei ganga svo til hvíldar, að þau ekki áður lypti huganum upp til drottins, og hugsi jafnframt til þeirra síðasta hvílurúms í gröfinni, hvaðan þau vænta fyrir guðs náð að fá að upp rísa til eilífs fagnaðar í guðsríki.

Þetta, sem nú hefur verið sagt um eðli kristilegs hjónabands, bið eg ykkur að hugfesta, kæru brúðhjón. Svo framarlega sem þið viljið, að hjónaband ykkar verði sannfarsælt, þá látið það verða kristilegt. Hafið Krist fyrir augum ykkar í allri ykkar breytni, í allri sambúð ykkar hvort við annað; ástundið, að láta hans hugarfar, hans frið lýsa út úr öllu ykkar dagfari, hans hógværð, elskusemi og umburðarlyndi skína út úr framferði ykkar, og þegar þið þannig að hans boði og með hans dæmi fyrir augum fylgizt trúlega að, og berið hvort annars byrði á ófarinni lífsleið, þá getið þið á æfinnar kveldi glöð og hughraust rennt huganum til baka yfir hið útrunna æfiskeið, glöð og hughraust litið til baka og endurminnzt þessarar stundar, glöð og hughraust falið ykkar anda í drottins hendur, því

frelsarinn mun þá ætíð verða ykkur nálægur með sinni náðarríku verndan og aðstoð, og flytja ykkur frá dauðanum til lífsins, flytja ykkur á friðarins land, hvar guðhræddir ástvinir aldrei skilja, heldur búa æfinlega saman í himneskri unaðsemd og gleði. Himneski algóði faðir! vjer biðjum þig fyrir þessi brúðhjón: haltu þinni verndarhendi yfir þeim, og láttu hjónaband þeirra verða sannkristilegt, láttu þinn góða anda glœða og lífga elskuna til þín í hjörtum þeirra, og við haltu fyrir hana hjónaást þeirra heitri og innilegri, svo þau leiti sinnar farsældar og sinnar œðstu gleði í því, að þóknast þjer og efla hvort annars tímanlegu, andlegu og eilífu farsæld; blessaðu þau, drottinn, af ríkdómi þinnar náðar með gnœgð þinnar blessunar betur, en vjer fáum beðið; bœnheyr það í Jesú nafni.

---

# Líkræður.

## I.

### Við jarðarför rektors Dr. **Svb. Egilssonar**, 27. dag ágústm. 1852.

---

Sem einn af lærisveinum hins framliðna er eg genginn hingað, til að mæla fáein orð að skilnaði yfir

moldum hans, með fram eptir tilmælum nokkurra annara hjerverandi lærisveina hans, og átti eg því bágra með að skorast undan þessu, sem mig sjálfan langaði til, að geta látið þá hjartanlegu virðingu í ljósi, sem eg ávallt hafði borið fyrir hinum framliðna, frá því eg var svo heppinn, að eiga hann fyrir kenniföður; jafnvel þó eg að hinu leytinu undir eins fyndi til þess, að eg var lítt fœr um, að mæla eptir slíkan mann, og eg nú finni til þess, að eg get engu bœtt við það, sem af hálfu kristilegrar kirkju er búið að tala um hans frábæru mannkosti. En það er ekki heldur ætlazt til annars af mjer, en að eg beri einfaldlega fram skilnaðarkveðju viðstaddra lærisveina, sem elskuðu hann og virtu.

Enginn okkar held eg hafi búizt við, að honum yrði kippt svo bráðlega burt frá okkur; hann var nú kominn til hvíldar og næðis eptir langa og dygga embættisþjónustu, og við bjuggumst allir við, að hann mundi enn eiga eptir nokkra stund ólifaða, og óskuðum fósturjörðu okkar til heilla með, að hann henni til vegs og sóma gæti nú hjer eptir eingöngu gefið sig við þeim vísindalegu störfum, sem honum ljetu svo forkunnar-vel. En drottni þóknaðist að hafa það öðruvísi; hans vegir eru órannsakanlegir; hann tók þann framliðna heim til sín, þegar speki hans þótti hentugast, og hversu mikill sem missir og söknuður okkar er, þá eigum við þó, ef við erum kristilega sinnaðir, að geta sagt af hjarta: drottinn gaf, drottinn burt tók, sje nafnið

drottins vegsamað! því þessi orð lýsa kristilegu þakklæti og kristilegum söknuði; kristilegu þakklæti að því leyti, sem kristinn maður þakkar guði fyrir allt gott, sem verður á vegi hans í lífinu, og kristilegum söknuði að því leyti, sem kristinn maður tregar að sönnu missi hinnar góðu gjafar, en lætur þó söknuð sinn stjórnast af undirgefni undir guðs vilja. Við þetta sorglega og hátíðlega tækifæri sjeu því þessi orð okkur hugföst: drottinn gaf, drottinn burt tók, sje nafnið drottins vegsamað. Drottinn gaf okkur þenna framliðna bróður; hann var sannarleg guðs gjöf, og gjöfin var mikil.

---

Það er eðlilegt, þó við, meðan við sem unglingar nutum tilsagnar hins framliðna, tækjum helzt eptir því, hvað ágætur kennari hann var, þó við þá helzt tækjum eptir hans frábæra lipurleik í að kenna, sem samfara hans blíða og ástúðlega viðmóti gjörði okkur svo ljett fyrir að nema; það er eðlilegt, þó við á þeim aldri einkanlega virtum og elskuðum hann sem afbragðsgáfaðan, lipran og alúðarfullan kennara; um annað gátum við þá ekki eiginlega dœmt, og þetta hefði líka verið nóg þakklætisefni við drottin, því það er sönn velgjörð guðs, þegar hann lætur œskumanninn fá slíkan kennara. En virðing okkar fyrir hinum framliðna hefur allt af aukizt meir og meir, eptir því sem við sjálfir vitkuðumst betur, eptir því sem sjóndeildarhringur sjálfra okkar stækkaði, og við lærðum að skoða líf

hans frá fleiri hliðum, og sáum, hve mikið honum var gefið á svo margan hátt, og hve mikið okkur var gefið í honum, og nú getum við vissulega allir af fullri sannfæringu hjartans sagt, að hann var sannarleg guðs gjöf; nú finnum við vissulega allir til þess, að við höfum orsök til að þakka guði, ekki einungis fyrir það, að hann ljet okkur hlotnast, að hafa hann fyrir kenniföður, heldur og einnig fyrir hitt, að hann ljet hann fæðast og lifa sem Íslending. Sjerhver þjóð, þó hún sje fremri og fjölmennari, en við Íslendingar, má þakka góðum guði fyrir slíka gjöf, þegar hann lætur sitt guðlega gáfnaljós skína svo skært hjá einhverjum manni, að það getur stráð geislum sínum á menntalíf þjóðarinnar, og borið ávöxtu fyrir alda og óborna. Þess háttar menn eru sjaldgæf guðs gjöf hjá öllum þjóðum; en því sjaldgæfari og stærri sem gjöfin er, því fremur má hún vekja hverja þjóð til þakklætis við drottin, og það er enginn efi á því, að hinn framliðna má telja með slíkum mönnum. Guð hafði gefið honum svo óvenjulega mikið; gáfurnar voru frábærar, skarpleikinn mikill, fegurðar-tilfinningin sjerlega næm, ímyndunaraflið fjörugt, og hugsanirnar háfleygar. Fáum er hvert um sig gefið í eins ríkulegum mæli og honum, og fæstum, að hafa það allt eins fagurlega sameinað, og hann; hjá honum bar ekkert annað ofurliða, heldur var það allt í innilegri og lifandi samhljóðun, og það er þessi samhljóðun, sem gjörir gáfurnar svo fagr-

ar, það er hún, sem gjörði hinn framliðna að svo frábærum snillingi, og hvað eina að snilldarverki, sem frá hans hendi kom, hvort heldur það var í bundinni eða óbundinni ræðu. Það leiddi mig of langt, ef eg færi að leiða rök til þessa af ritum hans; og hvað þarf að leiða rök að því, sem er lifandi sannfæring vor allra, og allra, sem til hans þekktu, og sem verður að lifandi sannfæringu hvers eins, sem tekur sjer rit hans í hönd, og ber nokkurt skynbragð á gáfnasnilld? Honum var mikið gefið; en hann varði því líka trúlega; hann vissi, að af þeim, sem mikið er gefið, verður og mikils krafizt. Þess vegna vann hann, meðan dagur vannst til; eins og gáfurnar voru afbragð, eins var þolið og iðjusemin óþreytandi, og því var ekki furða, þó hann væri vísindamaður, og þó hann af kastaði svo miklu; en það er næsta fágætt, að aðrir eins gáfumenn sjeu jafnmiklir iðjumenn, og hann var. Vegna sinnar einstaklegu iðjusemi fjekk hann líka tíma til, að vanda allt, sem hann gjörði, og hann vandaði það allt, því hans næma fegurðar-tilfinnan leyfði honum ekki, að kasta höndunum til neins, eða skilja eptir misfellur eða ójöfnur á nokkrum hlut. En í því lýsti sjer hans frábæra gáfnaljós, að hve mikið sem hann vandaði sig, þá misstist hvorki fjör nje lipurleiki; þetta kom til af því, að hann hafði fullkomið vald yfir hugsunum sínum, og það gat hann haft, af því hann hafði fullkomið vald yfir málinu, og gat valið hverri hugsun þann

snotrasta og heppilegasta búning. Hafi nokkur maður gjörþekkt eðli íslenzka málsins í þess innstu og dýpstu rótum, þá var það hinn framliðni, og hann ekki einungis gjörþekkti það, heldur var hann því svo innlífaður, að það var eins og hann lifði í málinu, og eins og uppspretta málsins lifði í honum, og í ritum hans runnu lifandi straumar hins hreina og fagra máls út um landið og út um önnur lönd, og gjörðu hann nafnfrægan hjer og annarstaðar; og þó leitaði hann ekki sjálfum sjer frægðar, heldur aflaði málið honum frægðar, af því hann víðfrægði það, og því mun minningu hans verða haldið uppi af máli okkar, meðan það lifir. Við höfum því tilefni til, að þakka guði fyrir þessa miklu gjöf; gjöfin var bæði mikil og góð; því hinn framliðni var ekki einungis mikill maður, heldur og góður maður; góðmennskan auðkennir alla hans æfi; hún lýsti sjer jafnan í hans blíða og ástúðlega viðmóti, í hans gáfuðu og gamansömu viðræðum, og í öllu hans dagfari; elskurík umgengni hans við konu og börn, við vini og vandamenn, og ljúfmennska hans við alla er alkunn; stilling hans og hugarrósemi var fram í dauðann sjálfri sjer lík; hún var sprottin af kristilegri rót, af óbifanlegu trausti á guðs föðurlegu gœzku, og öll hans breytni lýsir því, að það er kveðið af hjarta, sem stendur í einum sálmi hans:

„Ó, hvað veikan það hressir huga,
að hefja klökkva sál til þín;

ekkert mótlæti mig kann buga,
meðan eg veit, þú gætir mín;
allt skapað birtir almátt þinn,
alstaðar eg þinn kærleik finn".

Þessi orð sýna okkur, hvaðan hann leitaði sjer sálarstyrks í lífinu, og hvers vegna hann gat tekið dauðanum með þeirri hugarrósemi og undirgefni undir guðs vilja, sem hann gjörði. Líf hans var eins og ljós; það logaði skært og fagurlega, en þó jafnt og stöðugt; af gáfum hans og hjartans blíðu lagði birtu nær og fjær, þangað til hann slokknaði út af eins og ljós; af því hann var sáttur við lífið, átti hann svo hægt með að sætta sig við dauðann. Nú er ljósið slokknað, nú er hann horfinn oss að sýnilegum návistum, og vor himneski faðir hefur tekið þessa miklu og góðu gjöf til sín aptur; himnafaðirinn mun virða okkur til vorkunar, þó söknuður okkar sje mikill, þó eptirsjón okkar sje mikil, því við höfum eptir miklu að sjá. Æ, eg vil ekki tala um harm ekkjunnar og barnanna, sem hafa misst blíðasta mann og bezta föður; það væri til að ýfa hjartasár þeirra enn meir, að fara þar um fleiri orðum; eg vil heldur ekki minnast á söknuð vina hans og vandamanna, sem trega tryggan og ástúðlegan vin, og trega hann því meir, sem þeir betur finna til þess, að það er sjaldgæft á hinum efri árum æfinnar, að nýir vinir geti bætt missi trúrra og einlægra fornvina. En eg tala einkanlega um okkur, lærisveina hins framliðna; og þegar eg tala um

lærisveina hans, þá get eg talað um alla Íslendinga, því lengi munum við Íslendingar geta lært af honum, og numið margan fróðleik af ritum hans. Við höfum eptir miklu að sjá; okkur finnst það nú, eins og missirinn sje óbœtanlegur, af því við höfum svo fáa vísindamenn, og engan til að skipa í skarðið, þar sem hann stóð svo framarlega í flokki okkar, og í mörgu tilliti vissulega fremstur; og það, sem eykur á söknuð vorn, er sjer í lagi það, að við eins og sjáum í anda, hve miklu hann enn hefði getað af kastað fósturjörðu okkar til frægðar og heilla, hefði honum unnizt aldur til. En það var drottinn, sem tók hann burtu, og því megum við ekki mögla, heldur ber oss í auðmýkt að beygja oss undir hans vísdómsfulla vilja, og treysta því, að hann einn veit, hvað bezt hagar, og að hann kallar sín börn burt á hœfilegasta tíma.

Með þessari huggun í hjörtum okkar kveðjum við þá moldir þínar, framliðni kennifaðir. Þitt dœmi skal hvetja okkur til, að lifa kristilega, og leitast við, að gagnast fósturjörðu okkar, hver í sínum verkahring; minning þín lifir í blessun; hún mun æ lifa heiðruð og elskuð í hjörtum okkar, í hjörtum ástvina þinna, í hjörtum allra góðra Íslendinga; og með ritum þínum hefur þú reist þjer þann minnisvarða, sem tíminn mun eiga bágt með að eyða; sjálfur lifir þú sæll hjá guði; honum sje þökk fyrir þína liðnu æfi; hann gaf þig, hann tók þig burt, hans nafn sje vegsamað. Amen.

---

## II.

Við jarðarför landlæknis, jústizráðs, Drs. philos.

## J. Thorsteinsens,

6. dag marzm. 1855.

---

*Es.* 57, 2:

*þeir, sem þjóna drottni, inn ganga í frið og hvílast, eins og þeir svæfu í hvílurúmum sínum.*

Gleði og líf, hryggð og dauði fylgjast að eptir eðli sínu, og þegar út af þessu ber, og lífið verður gleðisnautt, þá kemur það til af því, að dauðinn einhvern veginn læðist inn í lífið og lamar það. Eins og gleðin er fjöræð og fylling lífsins, eins er líka sorgin förunautur dauðans, því dauðinn er ekki annað en vöntun lífsins, og þar sem lífið þverr, þar kemur í staðinn tómleikinn, söknuðurinn og sorgin; og sorgin og söknuðurinn verður að því skapi sárari og meiri, sem hið slokknaða líf var fyllingarmeira og tengt við annarra líf með viðkvæmari ástar- og virðingar-böndum. Það er því ekki furða, þótt eptirsjón og söknuður og sorg hreifi sjer nú í margra hjörtum, því það líf, sem *hjer* er slokknað, var fjörugt og fyllingarmikið, og elskað og virt af mörgum. Það líf, sem *hjer* er slokknað, lifði

til þess, að við halda annara lífi, og því er það ekki kynja, þó sorgartárin væti kinnar hinna eptirlifandi, þó hryggðin særi hjörtu þeirra, þegar þeir verða að sjá á bak honum, sem þeir næst guði áttu líf sitt að þakka. Sje líka nokkur hlutur hjer á jörðu virðingar og elsku verður, þá er það vissulega líf þess manns, sem ver því til að gegna trúlega skyldum köllunar sinnar, og það sem einkanlega auðkenndi líf þessa vors framliðna bróður, var óþreytandi og óviðjafnanleg skyldurækt. Að vinna verk köllunar sinnar, það var matur hans og drykkur; í því var líf hans fólgið; án þess gat hann ekki lifað. Að vitja sjúkra, hve nær sem skyldan kallaði hann, hvernig sem á stóð, hvort það var heldur á nóttu eða degi, hvort sem hann sjálfur var frískur eða ófrískur, hver sem í hlut átti, fátækur eða ríkur, vesall eða voldugur, til þess var hann ætíð jafnt boðinn og búinn, ætíð jafnt boðinn og búinn til þess, að leggja jafnvel lífið í sölurnar fyrir skyldu sína. Hve erfið læknastörfin eru hjer á landi, og hve örðug ferðalög hjá oss eru vön að vera, einkum á vetrardag, bæði sökum vegalengdar, ófærðar og illviðra, er oss öllum kunnugt; hvernig það, þegar svo ber undir, verður næstum ómögulegt og bundið hinni mestu lífshættu, að koma ferð sinni áfram, vitum vjer allir. En hann þekkti ekki þessa erfiðleika; það var eins og skyldræktin klæddi hann þeim hertygjum, sem ekkert biti á; það var eins og hún lypti honum

yfir jörðina og flytti hann á vængjum sínum; hugurinn bar hann hálfa leið; þess vegna komst hann það, sem öðrum var ófært, og var fljótari í ferðum en flestir aðrir. Að vísu hafði drottinn gefið honum hrausta líkamabyggingu, og meira þol og þrek og fjör en flestum öðrum; en þó hefði hann ekki getað þolað slíka áreynslu, ekki enzt eins lengi, hefði ekki skyldurœktin verið hið innra lífsafl hjá honum, sem knúði hann áfram og við hjelt kröptum hans. En það eru forlög vor, dauðlegra manna, að hversu sterk og rammbyggileg sem þessi vor líkamans tjaldbúð er, þá hlýtur hún þó einhvern tíma að láta undan, fyr eða síðar að hrynja, eins og allt, sem háð er áhrifum tímans, og sæll er sá, sem, eins og þessi vor framliðni bróðir, slítur sjer út í þjónustu skyldunnar og gjörir líkama sinn að verkfœri hennar, líf sitt að farvegi hinnar eilífu hugsjónar. Sæll er sá, sem á dauðastundunni getur rennt augunum yfir sitt liðna líf og sagt: „Eg hlýt nú að deyja, af því líkaminn er ekki lengur hœfilegur til að vera bústaður andans; en guði sje lof fyrir það, að það er skyldurœkt, að það er trúmennska í minni köllun, sem hefur unnið svig á líkama mínum, svo að mitt innra líf, minn innri maður hefur vaxið, eptir því sem hinn ytri maður hrörnaði, og þetta mitt innra og sanna líf gefur mjer nú djörfung til að deyja í drottni“. Með slíkri kristilegri djörfung gat þessi vor framliðni bróðir tekið dauða sínum. Skyldurœkt hans náði

ekki einungis til embættisstöðu hans, heldur gagntók hún gjörvallt líf hans, og kvíslaðist um það allt, eins og æðarnar um líkamann. Skyldurækt og góðmennska voru fagurlega sameinaðar í fari hans. Góðmennskan skein jafnan út úr hans glaðlega og ástúðlega viðmóti, út úr hans gáfuðu og gamansömu viðræðum, og út úr öllu dagfari hans. En hvergi lýsti sjer skyldurækt hans, sameinuð hjartagœzku, betur, en í elsku hans til konu og barna; því enginn maður gat verið ástúðlegri við konu sína en hann, enginn elskað börn sín heitar og innilegar; þessa ástvini sína elskaði hann ekki einungis með orði og tungu, heldur og í verki og sannleika; óþreytandi var sú umhyggja, sem hann bar fyrir þeim, aðdáanleg sú föðurlega nákvæmni, er hann sýndi þeim; allt vildi hann til vinna, allt vildi hann leggja í sölurnar, til að gleðja þá og efla þeirra velferð. Af elsku hans til þeirra spratt einnig að miklu leyti sú fyrirhyggja, sem hann bar fyrir efnahag sínum, sú staka umsjón og eptirlit, sem hann á heimili sínu hafði á öllum hlutum, svo þar fór allt fram með hinni mestu reglu. Þessari hagsýni, reglusemi, árvekni og umsjónarsemi var það að þakka, að hann gat komið börnum sínum til menningar, og þó jafnan haldið rausn og höfðingskap og góðgjörðasemi í húsi sínu. Eins og drottinn hafði gefið þessum vorum burtsofnaða bróður hrausta líkamabygginguʼ, fjör og þol og þrek fremur flestum öðrum, eins hafði hann líka ljent

honum ágætar sálargáfur. Lærdómsiðkanir hans á hinum yngri árum æfinnar og ritgjörðir þær, sem hann hefur eptir sig látið, bera um þetta órækt vitni. Hann var ekki einungis að allra dómi afbragðsvel að sjer í hinum vísindalegu greinum læknisfræðinnar, heldur var hann og mjög fróður og lesinn í öðrum vísindum, einkum þeim, sem snerta náttúrufræðina og mannkynssöguna; því eins og hann var gáfumaður, eins var hann líka mesti iðjumaður, og tók sjer jafnan bók í hönd, þegar hann fjekk tíma til þess fyrir embættisönnum. Það, sem virtist auðkenna gáfnalag hans, voru afbragðsfljótar námsgáfur, fjör og minni; hann nam allt, sem hann las eða heyrði, og mundi allt, sem hann hafði numið. En þó atgjörvi sálar og líkama sje næsta fagurt, og verðskuldi þakklæti vort við gjafarann allra góðra hluta, af því það eru geislabrot guðlegs eðlis í manninum, þá eru þó dyggðir og mannkostir, elska til hins góða og skyldurækt enn þá fegri, af því guðs mynd einkanlega birtist í þessum siðferðislegu eiginlegleikum; þar birtist aðstoð guðs anda í áreynslu mannlegs vilja, og þetta afl og áreynsla hins góða vilja var einhver hin fegursta prýði þessa vors framliðna bróður. Hann vildi ekki ganga við eintómt gáfnaljós, þó hann svoleiðis hefði getað komizt klaklaust af í veröldinni, heldur ljet hann skylduna vera ljós á sínum vegum og lampa sinna fóta, og þetta skæra skylduljós lýsti honum fram í andlátið, fram í myrkur dauðans.

það er fagurt líf, sem þannig er upp ljómað af skyldunni; það er fagurt, að lifa í hennar ljósi; þá verður ekki heldur dauðinn dapur, þegar á hann slær geislum hins liðna lífs. það var og fagur dauði, sem vor framliðni bróðir fjekk, svo fagur og hægur, að fæstum er lánað að deyja þannig. það er að vísu satt, að hann í mörg ár átti í stríði við dauðann, þegar hann var að verja aðra fyrir árásum dauðans; en hvað hann sjálfan snerti, átti hann ekki í neinu dauðastríði, heldur mátti svo að orði kveða, að hann í andláti sínu væri yfirskyggður af dauðans friði; á honum rættist það, sem ritningin segir um dauða þeirra, sem þjóna drottni, „að þeir inngangi í frið, og hvílist eins og í hvílurúmum sínum“. Að vitja sjúkra var hans seinasta verk hjer á jörðunni; frá þeim kom hann, og fór heim til sín, og lagðist til hvíldar, og sofnaði sætt og rótt, en vaknaði ekki aptur til þessa lífs, heldur gekk inn í frið og fögnuð herra síns. Frið skildi hann hjer eptir, og frið tók hann með sjer; frið skildi hann hjer eptir við alla menn, friðarins blíða lifði og á vörum hans látins, og bros ljek um hans fölnuðu kinnar. Með þessu friðarins blíða brosi var eins og hann vildi kveðja og hugga eptirþreyjandi ástvini sína; það var eins og hann með því vildi minnast við þá að skilnaði, og taka þeim vara fyrir, að syrgja sem þeir, er enga von hafa, því þar sem hann nú væri staddur á vegamótum tímans og eilífðarinnar, fyndi hann

til himneskrar vonar, fyndi hann himneskan fögnuð og gleði brosa móti sjer úr betra heimi, og streyma um sálu sína, fyndi hann líf sitt snortið af eilífum unaði og friði. Frið tók hann með sjer, frið við guð og samvizku sína; það skylduljós, sem hafði lýst honum hjer á lífsins vegi og runnið saman við lífseðli hans, varð í dauðanum að friðargeisla í sálu hans, og geislinn hvarf til ljósanna föður, en hjá honum er eilífur friður og fullsæla. Þangað safnast hinir góðu og guðhræddu ástvinir, þegar tími hvers eins er kominn; þar bíða þeir, sem undan eru farnir, hinna, sem á eptir koma, en þurfa ekki að bíða nema stutta stund, því innan lítillar stundar eru 'þeir allir farnir hjeðan og komnir heim til föðurhúsanna. Þetta sje huggun syrgjandi ekkjufrúr, syrgjandi barna og ástvina; það sje huggun vor allra. Að vísu græðir tíminn mörg sár hjartna vorra, þó þau sjeu djúp og mikil, og getur bætt margan missi, þó hann sje stórkostlegur; en hann getur ekki læknað það, sem hjer í lífi er ólæknandi, ekki bætt það, sem er óbætanlegt; þegar svo er ástatt, getur hann einungis sefað sorgina, gjört tilfinningarnar hægri og spakari, eða deyft endurminninguna. Þess vegna verður sú lækningin bezt, sú huggunin drjúgust í hörmum vorum, sem kemur hjer að ofan, sem er ofar öllum tíma, og streymir niður til vor úr eilífðarinnar heimi; og þessa áreiðanlegu huggun höfum vjer í Jesú lærdómi, í orðum og fyrirheitum hans, sem á efsta degi mun segja

við alla þá, sem með mannelskufullu hugarfari rjetta sjúkum og nauðstöddum bræðrum líknandi hjálparhönd: „Sjúkur var eg, og þjer vitjuðuð mín“; „komið blessuð börn míns föður, og eignizt það ríki, sem yður var fyrirbúið frá upphafi veraldar“. En þó harmþrungin ekkja, þó harmandi börn og ástvinir hins framliðna geti leitað sjer huggunar hinu megin tímans, í guðsorði, sem aldrei bregzt, þó himinn og jörð fyrirfarist, hvar á þó fósturjörð vor að leita sjer huggunar? hvernig og hve nær fær hún þann skaða bættan, þegar dauðinn kippir burt hinum merkustu mönnum, einum á fætur öðrum? og þessi vor framliðni bróðir var einn af hennar beztu sonum. Æ, hún verður, eins og allt hið skapaða, að lúta vilja skapara síns, lúta vísdómsráði hins eilífa, sem stjórnar högum hennar, eins og hins gjörvalla og hvers einstaks manns, með speki og gæzku; hún verður að treysta því, að herra lífsins og dauðans muni kveykja nýtt líf í stað þess, er að hans boði slokknar, til að við halda menntun hennar og framförum í öllu góðu. Eins og harmandi ástvinir finna til huggunar af því, að geyma sem bezt minningu hins elskaða vinar, sem dauðinn tekur frá þeim, að geyma endurminningu hans innst í hjarta sínu, eins verður fósturjörð vor að lina og sefa harma sína með því, að gæta vel minningar sinna góðu sona; þess vegna mun hún og jafnan hafa í heiðri minningu þessa framliðna merkismanns; og vjer, kæru vinir, viljum af fremsta

megni hjálpa til þess, að hugga fósturjörðu vora, með því að halda á lopti minningu allra þeirra Íslendinga, sem unnið hafa sjer og henni sóma, og því viljum vjer einnig láta minningu þessa merka bróður lifa hjá oss í blessun, og leitast við, að líkjast honum í skyldurækt og öðrum manndyggðum.

En þú, sem hefur líf og dauða í þinni hendi, algóði himneski faðir, gef þú oss náð til þess, að verja vel þessum vorum fáu hjervistardögum, svo vjer gegnum trúlega þeim skyldum, sem þú hefur oss á herðar lagt; þá munt þú einnig af náð þinni á síðan gefa oss trúrra þjóna verðlaun. Sendu þinn frið og þína huggun niður í hjörtu allra þeirra, sem 'hjer trega burtför þessa þíns trúlynda þjóns; lát þú þá finna til þess, að allir þínir vegir eru einber miskun og trúfesti, að þú ert ávallt góður og gæzkuríkur, hvort heldur þú gleður eða grætir, gefur eða burt tekur, og að því ber öllum jafnan að vegsama þitt heilaga nafn. Amen.

---

## III.

Við jarðarför frúar **J. S. Bogadóttur** (konu landsyfirrjettardómara J. Pjeturssonar), 29. dag maím. 1855.

### a) Húskveðja.

Ó guð, þú sem skapaðir heiminn, til að opinbera hinn eilífa kærleika, og gróðursettir velvild og elsku í hjörtum allra þinna barna, svo vjer ekki skyldum vera einmana nje yfirgefnir á þessari vorri vegferð, heldur leita oss huggunar í kærleikanum, hví settir þú oss á þetta skilnaðarins land? Hví að skilur þú þá, sem þú hefur sameinað? og sviptir oss aptur þeim fögnuði og þeirri gleði, sem þú gafst oss? Æ, allir þínir vegir eru einber miskun og trúfesti, og því ber oss að treysta því, að þú í vísdómsfullum og gœzkuríkum tilgangi slítur hin viðkvæmu ástarböndin. Já, vissulega eru þau skilnaðar- og saknaðar-tár talin á himnum, sem hjer á jörðu væta kinnar eptirþreyjandi guðhræddra ástvina, og sorgarkveðja elskandi hjartna stígur vissulega upp að hásæti hans, sem er eilífur miskunsemdanna faðir og guð allrar huggunar. Þessi trú sje kröptug og lifandi í hjörtum vorum á þessari stundu, svo að sorgin verði kristileg, og þessi sorgarstund verði að vonarstundu. Vissulega er þetta sár sorgarstund. Það er ætíð sorgarstund,

þegar vinurinn yfirgefur vin sinn, þegar þeir, sem unnast hugástum, verða að skilja, og eiga ekki von á, að sjást aptur um lengri tíma; en því fremur er það sorgarstund, þegar dauðinn hrífur ástvininn úr faðmi vorum, og vjer eigum aldrei von á, að sjá hann aptur í þessu lífi, og þessi skilnaður er því þyngri, sem söknuðurinn eingöngu leggst á hjarta hins eptirlifandi vinar. Þetta er þá ein af þvílíkum sorgarstundum lífsins, því innan þessara dökku fjala geymast jarðneskar leifar framliðinnar systur, sem nú ætlar að yfirgefa þessi híbýli sín, og þá, sem hún hjer unni hugástum; hún skilur nú við þau og þá að sýnilegum návistum, en skilur hjer eptir ógleymanlega elskunnar minningu í hjörtum sinna ástfólginna. Hver sá, sem nokkuð þekkti líf þessarar vorrar framliðnu systur, og sá, hve vel hún stóð í sporum sínum sem kona, móðir og húsmóðir, hlaut að virða hana og elska, og hvað þá hinir, sem stóðu henni nær og umgengust hana daglega, eða voru henni tengdir með vináttunnar og kærleikans böndum. Hún skilur nú við þessi híbýli, en skilur hjer eptir þakklæti sitt við alla, er sýndu henni vinsemd og góðvilja, við alla, sem önnuðust hana í hennar löngu og ströngu banalegu, en einkanlega við þig, ástkæri bróðir, sem hjúkraðir henni með nákvæmni og hjartanlegri þolinmæði. Hún þakkar þjer fyrir elskuríka samveru og sambúð alla þá stund, sem drottinn leyfði ykkur að vera saman. Hún skilur nú við þetta hús, en

skilur hjer eptir sinn frið og sína blessun. Friðsamleg var framganga hennar í lífinu; kristilegur friður bjó í hjarta hennar, og öll hennar sambúð við skylda og vandalausa stjórnaðist af friðarins anda; hœgur og friðsamlegur var viðskilnaður hennar við þetta líf, eins og hún með guðrœkilegri stillingu og þolinmœði bar sjúkleikans þunga kross; þess vegna skilur hún hjer eptir sinn frið; en hennar friður var friður við guð, sjálfa sig og aðra; þess vegna mun líka minning hennar jafnan lifa í blessun, ekki einungis í þessum húsum, heldur í hjörtum allra ástvina hennar, og allra, sem hana þekktu. Hennar sæla önd er farin á friðarins land, og þar biður hún nú blessunar og friðar öllum, sem hún unni hjer í lífi. Grátum því ekki yfir henni, heldur lyptum augum trúarinnar og vonarinnar upp þangað, sem hún er farin, upp til friðarins og sælunnar himnesku bústaða. Þangað liggur einnig vor vegur, og þangað eigum vjer að keppa eptir henni í kristilegum friði og kærleika. Þaðan sendir hún oss að skilnaði friðsamlega kveðju, og það er eins og hún ávarpi oss á þessa leið: „Grátið ekki yfir mjer; eg er farin til míns guðs og yðar guðs, til míns og yðar föður, og það er eptir hans eilífa vísdómsráði. Hann mun halda sinni föðurlegu verndarhendi yfir mínum eptirlátnu ástvinum, og hann, sem aldrei gleymir sínum börnum, mun mildilega gæta minna ungu munaðarlausu barna, og leiða þau eptir sínum gœzkuríka vilja; hann mun geyma yð-

ur alla í faðmi sinnar föðurlegu forsjónar, og leiða yður á friðarins land, ef þjer geymið hans frið í yðar hjörtum". Svo lifi þá minning þín í blessun og friði, framliðna, sæla systir. Þú skilur hjer eptir kveðju friðarins og kærleikans og bænir blessunarinnar, og vjer viljum sameina vorar bænir þínum bænum, og biðja þinn og vorn himneska föður, að láta sinn frið, sinn kærleika og sína blessun fylgja oss hjeðan, svo að þessi sorgarstund geti orðið oss að vonarstundu, eins og vjer nú viljum fylgja þínum jarðnesku leifum í guðshús, áður en þær eru fluttar í hinn helgaða reitinn, í þeirri vissu von, að vjer á síðan fáum að sjá þig aptur á friðarins landi. Drottinn, uppfylltu þessa vora kristilegu von í Jesú nafni. Amen.

## b) Líkræða.

Enginn má ætlast til þess af mjer, að eg haldi fjölorða ræðu við þetta sorglega tækifæri, því tilfinningar mínar leyfa mjer að eins, að mæla nokkur orð; en guð gefi, að það geti verið orð huggunarinnar! og mjer detta þá engin huggunarfyllri orð í hug, en þessi orð postulans: „*Vor borgarrjettur er á himnum*". Þessi orð hafa á öllum öldum verið huggunarrík fyrir alla Jesú trúuðu vini í sjerhverri sorg og mæðu. Að vísu fundu þeir ekki síður en aðrir til þess, hve beiskur sá bikar var, sem drottinn rjetti að þeim, og

þeir beiddu hann, eins og frelsarinn, að þessi kaleikur mætti víkja frá þeim; en þegar þeir sáu, að þessi bœn var ekki samkvæm vilja og ráði hins algóða himneska föður, þá lyptu þeir augum trúarinnar upp yfir þetta skammvinna jarðneska reynslulíf, og fundu til þess í sálu sinni, að borgarrjettur þeirra var á himnum, og að mótlætingar þessa tíma komust ekki í samjöfnuð við þá dýrð, sem þeir áttu þar í vændum. Hvað væri líka þetta líf án þessarar trúar? Til hvers mundi drottinn hafa tengt hin viðkvæmu bönd ástarinnar og vináttunnar meðal mannanna, ef þau ættu að slitna hjer til fulls, ef ást og vinátta næði ekki lengra en að grafarbarminum? Þegar vjer á lífsleið vorri höfum fundið einhvern einlægan og góðan vin, þegar vjer erum farnir að elska hann af hjarta, og hann er orðinn yndi vort og gleði, æ, þá kemur dauðinn, þegar minnst vonum varir, og blæs á blóm elskunnar og vináttunnar náköldum anda, svo þau fölna allt í einu, og með þeim deyr unaður og ánœgja lífsins. Hvað væri þá mannlegt líf, ef vjer ekki gætum sagt: „Vor borgarrjettur er á himnum“. Ó, hversu sorgleg væri ekki þessi stund, ef vjer gætum ekki lypt augum vonarinnar upp til himins, og treyst þeim fyrirheitum drottins, að guðhræddir ástvinir fái aptur að sjást í öðrum og betra heimi, þar sem hvorki sorg eða synd eða dauði er framar til. Ó, hversu sorgleg væri ekki þessi stund fyrir þig, *elskulegi*

*bróðir*, ef sú fullvissa byggi ekki í brjósti þínu, að vor borgarrjettur er á himnum. Hjer sjer þú að sönnu innilega hluttekningu vina og vandamanna; en þessi hluttekning minnir þig einungis á, hve mikils þú hefur misst, og að sá bezti vinurinn, sem þú áttir hjer á jörðinni, er horfinn. Ó, hve gleðisnautt yrði líf þitt eptirleiðis, ef þú gætir ekki haft umgengni þína á himnum, og hugsað til sælla samfunda við hana, sem þú nú hefur misst; og hve sorglegt yrði ekki fyrir þig, að hugsa til þinna ungu munaðarlausu barna, sem misst hafa þá beztu og nákvæmustu móður, ef þú ekki með hjartanlegu trúnaðartrausti gætir bent þeim upp til himins og sagt þeim, að þangað sje móðir þeirra farin, þar sje einnig þeirra borgarrjettur, og þar muni þau sjá hana aptur, ef þau líkist henni í guðsótta og kristilegum dyggðum. Eg þori að minnast á þetta nú, af því eg veit, að kristileg trú er djúpt gróðursett í hjarta þínu, og að þú ætlast ekki til meira af þessu lífi, en það eptir eðli sínu getur gefið; af því eg veit, að þú ætlast ekki til huggunar af því, heldur leitar hennar á himnum, af því eg veit, að þú einnig á þessari stundu rennir augunum þangað, og hugsar til þess, að hún, sem þú unnir svo heitt, er komin í tölu þeirra ástvina, sem á undan okkur eru farnir þangað, og að við komum á eptir innan *lítillar stundar*. Því hvað eru þessi fáu og hverfulu ár, annað en *lítil stund*, sem er út runnin áður en varir? Og þó

finnst oss, dauðlegum mönnum, stundum, eins og vjer eigum að vera hjer um langan tíma, eins og vjer eigum að dvelja hjer um aldur og æfi, og oss þykir svo þungbært, að missa frá oss þá, sem vjer elskum. Þessi tilfinning, sem villist herfilega, ef hún kemur oss til, að festa hug og hjörtu einungis við þetta líf, er í sjálfri sjer eðlileg, og sprottin af þeirri löngun eptir eilífri og sælufullri tilveru, sem drottinn hefur gróðursett í hjarta mannsins, og þessi tilfinning heldur sinni rjettu stefnu, ef vjer elskum þetta líf, af því það er undirbúningur undir hið æðra, eilífa lífið, og elskum gjafir drottins í þessu lífi, af því þær miða til, að efla sælu vora í öðru lífi. Þessi elska til lífsins og lífsins gæða heldur sinni rjettu stefnu, ef vjer jafnan höfum það hugfast, að vor borgarrjettur er á himnum. Þess vegna er gleði og fögnuður hins trúaða yfir gæðum þessa lífs eptir guði, og þegar drottni þóknast, að svipta hann sínum gáfum, þá er hryggð hans einnig eptir guði, því þó hann allra-fyrst kunni að verða svo yfir kominn af sorg og söknuði, að hann sjái ekkert fyrir tárum og trega, þá fer hann þó aptur bráðum að ranka við sjer; sjón trúarinnar fer að skírast, og hann minnist þess, að gjöfin kom hjer að ofan frá miskunsemdanna föður. Þá minnist hann þess líka, að það var hinn algóði gjafarinn, sem tók gjöfina aptur, og hann vegsamar nafn drottins, því hann treystir því, að allir hans vegir sjeu einber miskun og sannleiki, og að allt,

sem hann lætur sínum börnum að höndum bera, hvort heldur það er sorg eða gleði, blítt eða strítt, miði þeim með einhverju móti til góðs, þó þau ekki ætíð sjái hans vísdómsfulla tilgang. Æ, svo sje þá líka vor hryggð eptir guði. Án hryggðar, án sárrar sorgar og saknaðar getum vjer ekki hugsað til burtfarar þinnar, sæla framliðna systir, og vjer treystum því, að himnafaðirinn, sem gaf þig, og sem hefur gróðursett kærleikans tilfinningar í mannlegum hjörtum, og kennt oss, að virða og elska hið góða, muni með sínu nærgætna föðurauga líta á söknuð vorn og virða oss hann til vorkunar; því eins og gjöf hans var góð og dýrmæt, eins er líka missir hennar að því skapi þungbær. Æ, eg tala hjer ekki um það, hvernig þessi vor framliðna systir, sem bezta og blíðasta kona og móðir, elskaði mann sinn og börn sín af öllu hjarta, hvernig hún lifði fyrir hann og þau, heldur sjer í lagi um það, hvernig hún ávann sjer hylli og elsku, ekki einungis systkina og vandamanna, heldur allra, sem lærðu að þekkja hana. Gáfur, geðprýði og glaðlyndi voru hjá henni fagurlega sameinaðir mannkostir, sem spruttu úr hreinu, guðelskandi hjarta, og lýstu sjer í öllu hennar dagfari. Já, því betur sem eg lærði að þekkja þitt elskulega hugarfar, sæla framliðna systir, því lengur sem eg kynntist þjer, og sá, hvernig þú fram gekkst fordyldarlaust í heiminum, og hvernig þú varðir öllu þínu lífi, til að gegna trúlega þeim skyldum, sem drottinn

hafði lagt þjer á herðar, hvernig þú varðir öllum þínum kröptum, til að gjöra líf míns ástkæra bróður farsælt og gleðilegt, því innilegar hlaut eg að elska þig og virða, og því er burtför þín einnig fyrir mig næsta sorgleg. Sár er söknuðurinn í brjósti viðstaddra syrgjandi systra þinna og náunga, sár verður sorgarfregnin um fráfall þitt, þegar hún berst fjærstöddum systkinum og þinni öldruðu, æruverðu móður; en allramest særir þó missir þinn, eins og vonlegt er, hjarta h a n s, sem, auk sinnar eigin sorgar, verður að bera sorg sinna ungu munaðarlausu barna. En af hæðum leiptrar ljós huggunarinnar niður í hin harmþrungnu hjörtun; þegar þau andvarpa upp til drottins, sem gjörir alla hluti vel, þegar þau flýja til hans og beygja sig undir hans vísdómsfulla vilja, þá sendir hann sinn anda, heilagan huggunaranda, niður í mannlegar sálir, og lyptir vorum anda upp í hæðirnar til sín, svo vjer trúum því og treystum, að „það batar oss“, að ástvinir vorir fari hjeðan, trúum því og treystum, að þ e i r r a og v o r b o r g a r r j e t t u r s j e á h i m n u m, trúum því og treystum, að a p t u r s j á u m á s t v i n i d ý r m æ t a, n æ r a n n a n k o m u m v j e r í b e t r i h e i m, h v a r a n g u r s t á r i n a l d r e i k i n n a r v æ t a, h j á e n g l u m g u ð s, o g v e r ð u m l í k i r þ e i m. Ó, guð, sendu þessa huggun niður í öll harmþrungin hjörtu, niður í hjörtu þeirra, sem syrgja burtför þessarar vorrar framliðnu systur, niður í hjörtu vor allra, svo vjer

getum borið sorgina kristilega, og vor hryggð verði eptir þjer, þangað til hún breytist í fögnuð á sælunnar og fagnaðarins landi, og vjer með himneskum fögnuði fáum aptur að sjá þessa vora framliðnu systur í tölu þinna útvöldu barna. Bœnheyr það í Jesú nafni. Amen.

---

## IV.

### Við jarðarför konferenzráðs, háyfirdómara
## **Þórðar Sveinbjarnarsonar,**
### 3. d. marzm. 1856.

---

Æ, þú, sem út hlutar árum og stundum og augnablikum lífsins, eilífi himneski faðir, til þín flýjum vjer í sjerhverri sorg og mœðu þessa lífs. Vertu oss nálægur með þinni náð á þessari sorgarstund; sendu þinn huggunaranda niður í hin harmþrungnu hjörtun, og gefðu þeim frið og hvíld í bœninni og traustinu til þín; styrktu þá sannfœringu í sálum vorum, að allir þínir vegir eru einber miskun og trúfesti, að hið stríða er ástgjöf þín, eigi síður en hið blíða, og að hvort sem þú kallar oss til lífsins eða dauðans, þá kallar þú oss til þín, til sælufullrar sameiningar við þig í lífi og dauða. Bœnheyr það í Jesú nafni. Amen.

Það reynist allt af satt, sem stendur í einum Davíðs

sálmi (90, 10), að „vorir æfidagar eru sjötíu ár, og með sterkri heilsu áttatíu ár, og það þeirra hið kostulegasta er sorg og mæða, af því þau líða skjótt og vjer erum á flugi“. En þó reynslan hafi sýnt það og sanni það daglega, að þetta vort líf er stutt og stopult, og að vjer erum hjer eins og á flugi, þá er þó eins og oss aldrei geti skilizt þetta til fulls, og engu hættir oss við að gleyma meir en því, að dauða vorn og annara geti að borið, þegar minnst vonum varir. Þessi gleymska vor kemur til af því, að vjer festum allan hug og hjörtu við þetta líf, við stundina, sem er að líða, og hin stundlegu gæðin, og þó er það ein af velgjörðum guðs við oss, að hann hefur innrætt oss elsku til lífsins, og lagað eðli vort þannig, að vjer getum gleymt dauðanum, getum verið án þess að hugsa allt af um hann; því stæði hann oss einlægt lifandi fyrir hugskotssjónum, þá gætum vjer hvorki notið unaðar lífsins, nje með alúð gegnt vorri jarðnesku köllun, því verki, sem drottinn fjekk oss hjer að vinna. Af þessari elsku til lífsins, sem himnafaðirinn hefur gróðursett í sálum vorum, en sem hann ætlast til að vjer, sem skynsemigæddir og upplýstir af hans heilaga orði, höldum innan rjettra takmarka, kemur það, að oss svo tíðum líður það úr minni, að þetta vort líf á að taka enda, og að vjer erum hjer eins og á flugi. En vjer elskum ekki einungis líf sjálfra vor, heldur og þeirra, sem vjer heiðrum og elskum,

og því gleymist oss einnig tíðum, að þeirra líf er líka stopult og sömu forlögum háð, eins og vort eigið líf, og það er eins og vjer aldrei getum sætt oss við þá tilhugsun, að þeir kunni að skilja við oss, enda þó þeir sjeu hnignir á efri aldur, og hafi þegar náð þeirri áratölu, sem Davíð segir að mannlegt líf sje skorðað við. Æ, því er ekki furða, þó vjer stöndum hjer hnuggnir og sorgbitnir; því var ekki furða, þó oss yrði hverft við, þegar vjer heyrðum lát hins merka höfðingja, hvers jarðnesku leifar felast innan þessara fjala, háyfirdómara og konferenzráðs **Þórðar Sveinbjarnarsonar,** því þó hann þegar væri nær sjötugur að aldri, var þó heilsan hraust, og sálar- og líkamakraptar enn þá með fullu fjöri, og vjer hugðum ekki, að dauðinn mundi bregða svo snögglega sigðinni og kippa honum svo fljótt burtu hjeðan. Og vjer megum ekki furða oss á því, þó fregnin um lát hans veki sorg og söknuð nær og fjær, því hann var heiðraður og heiðursverður, ástsæll og elskuverður. Heiðraður var sá framliðni af konungi vorum, og sæmdur þeim nafnbótum, sem vant er að veita merkustu mönnum veraldlegrar stjettar hjer á landi, og þessar nafnbætur eru að því leyti heiðursverðar, sem þær sýna álit stjórnarinnar á mannkostum og frábærum embættisdugnaði þeirra manna, sem þær eru veittar. Heiðraður var hann hjer á landi, og það eins af þeim, sem þó höfðu aðrar meiningar en hann um ýmsa

hluti. En hann leitaði aldrei lofs hjá mönnum, heldur fylgdi því fram, sem hann áleit vera rjett og satt, hver sem í hlut átti; hann leitaði ekki þess fánýta og fallvalta heiðurs, sem sumir afla sjer með smjaðri og hræsni, því hann vissi, að þess háttar heiður er ekki annað en einber skuggi og reykur, og að í nákulda grafarinnar visnar sjerhver virðingakrans, sem þannig er fljettaður af mannahöndum. Og þó leitaði heiðurinn hans, og lánið og gæfan fylgdu honum. Af hverju mun þetta hafa komið? af því hann var sannarlega heiðursverður. Það, sem gjörir hvern mann heiðursverðan, eru að nokkru leyti þær gáfur og þeir eiginlegleikar, sem hann hefur þegið af drottni, en þó sjer í lagi það, hvernig hann fer með þessar sínar gáfur og eiginlegleika; og það er víst, að eins og hinn framliðni hafði fengið mikið pund í hendur, frábærar og fjölhæfar gáfur, eins varði hann þeim líka vel og trúlega í sjerhverri lífsins stöðu. Þær allmörgu og merkilegu ritgjörðir, sem hann hefur eptir sig látið, lýsa því glögglega, hvílíkur lærdóms- og vísinda-maður hann var, og hvílíka þekkingu hann hafði, ekki einungis á löggjöf vorra tíma, heldur og á lögum og fræðum fornaldarinnar, eins og hann líka á sínum yngri árum, og meðan hann enn var að lesa lög við háskólann í Kaupmannahöfn, fyrir þess háttar ritgjörð ávann sjer verðlaunapening háskólans úr gulli, og nokkru seinna opinbert lof fyrir aðra samkynja ritgjörð. Þó hann því ekki

hefði haft annað sjer til ágætis en lærdóm sinn og fróðleik, þá hefði saga vor Íslendinga lengi haldið minningu hans á lopti. En gáfurnar voru fjölhæfar, og ekki einungis lagaðar fyrir vísindalega rannsókn, heldur og ágæta-vel fallnar til, að afla sjer þekkingar á öllu því, sem snertir hina ytri starfahlið lífsins, og miðar til að efla almenningsheillir. Og það er kunnugra en frá þurfi að segja, hvernig hann í þessu tilliti varði gáfum sínum. Þegar vjer nú látum hugann hvarfla yfir embættisferil þessa framliðna höfðingja, þá er það alkunnugt, hvílíkan orðstír hann hafði áunnið sjer, áður en hann varð dómari í landsyfirrjettinum, sem sýslumaður, fyrir framúrskarandi dugnað, stjórnsemi og árvekni í embættisfærslu sinni, og að hann með þessum mannkostum, sem urðu hljóðbærir um allt land, ávann sjer hylli og heiður sýslubúa sinna. Já, lengi mun hans verða getið í Árnessýslu, sem einhvers hins merkasta yfirvalds, er þar hafi nokkurn tíma verið. Og eins og hann með einstaklegri alúð leitaðist við, að efla siðgæði og velgengni sýslubúa sinna, meðan hann hafði sýslumannsembættið á hendi, eins hjelt hann þessu sama áfram, eptir að hann var orðinn dómari í landsyfirrjettinum, nema hvað hann þá ljet umönnun sína fyrir almennings heillum ná til alls suðuramtsins, og varð aðalfrumkvöðull til þess, að stofnað væri fjelag í þessu skyni fyrir allt umdæmið; og það er alkunnugt, að hann var ekki einungis aðalfrum-

kvöðull til þessa fjelags, heldur og lífið og sálin í því til dauðadags, og allir vitum vjer, hvernig þetta fjelag fyrir hans viturlegu stjórn hefur blómgazt af litlum upptökum, og komið miklu góðu til leiðar hjer í suðuramtinu viðvíkjandi jarðabótum og ýmsum öðrum nytsamlegum fyrirtœkjum, eins og það ekki mun heldur of hermt, að það hafi hvatt menn til eptirbreytni í hinum fjórðungum landsins. Það gat ekki hjá því farið, að þvílík atorka, sameinuð viturlegri ráðdeild og fyrirhyggju, hlyti að vekja sjerlega eptirtekt stjórnarinnar á slíkum manni, og því sjáum vjer og, að hann hefur verið kjörinn af konungi vorum, til að taka þátt í öllum þeim samkomum, sem á seinni árum hafa að tilhlutun stjórnarinnar verið haldnar hjer á landi, til að íhuga almenn málefni, gagn og nauðsynjar landsins, og það mun jafnan verða viðurkennt, að eins og tillögur hans í þessum málum eru sprottnar af djúphyggni og byggðar á viturlegri varúð, eins lýsa þær og ljósri og greinilegri þekkingu á því, hvað bezt á við þarfir þessa lands, og eru vottur um hans einlægu og staðföstu föðurlandsást. Það má nærri geta, að sá maður, sem með þvílíkri alúð og árvekni leysti hvert það starf af hendi, sem honum var á hendur falið, muni ekki hafa lagt minni rœkt við sitt eiginlega embætti, við hin áríðandi og háleitu dómarastörf. Hann þekkti gjörla, hversu háleitt og áríðandi embætti dómarans er; hann vissi gjörla, að dómarinn er settur, til að gæta guðs og

manna laga, til að vernda rjettindi manna, til að komast eptir sannleikanum, og vega brot og hegningu hvað á móti öðru. En hann þekkti líka það stríð, sem þessu embætti einatt er samfara í brjósti dómarans, þegar meðaumkunarinnar tilfinningar vilja fríkenna og fyrirgefa, en samvizkan og lögin bjóða að hegna, bjóða „að bera ekki sverðið forgefins“. Já, hann þekkti allan þann vanda, sem þessari stöðu fylgir; en hann leitaðist rækilega við, að ná fastri sannfæringu í hverju máli. En hann var ekki einungis heiðraður sem glöggskyggn og rjettsýnn dómari, sem fjölfróður vísindamaður, sem árvakur, reglusamur, þrekmikill og stjórnsamur embættismaður, sem djúphygginn og framsýnn föðurlandsvinur, heldur var hann það og í sjerhverri stöðu lífsins, í heimilislífinu og fjelagslífinu, og þess vegna var hann svo ástsæll og elskuverður. Það eru til margir heiðursverðir menn, sem vjer virðum vegna margra ágætra eiginlegleika, en sem vjer eigum bágra með að elska, af því þeir hafa einhverja þá annmarka í fari sínu, sem oss stendur stuggur af; en sá framliðni var ekki í þeirra tölu; hann var bæði heiðurs- og elsku-verður. Eða hafið þjer nokkurn tíma þekkt ástríkari ektamaka, eða betri og blíðari föður? Æ, sorg og söknuður þessara hans eptirþreyjandi ástvina bera þess ljósastan vottinn, hversu heitt þeir unnu honum, og hvernig hann elskaði þá allt til enda, og þessi elska hans til þeirra lýsti sjer daglega í blíðlegu

viðmóti, í sjerlegri nákvæmni og óþreytandi umönnun. En þessi hans ástríka umgengni náði ekki einungis til konu hans og barna, heldur og til allra, sem á heimili hans voru; því hann var sannkallaður faðir hjúa sinna, og þess vegna var hann elskaður til dauðadags af öllum góðum hjúum, sem hjá honum höfðu verið. Í gjörvöllu sínu heimilislífi sýndi hann svo fagurlega, hvernig reglusemi og atorka, staðfesta og blíðlyndi, þrek og stilling, stjórnsemi og friðsemi geta haldizt í hendur. Hvernig hann var heiðraður og elskaður af því fjelagi, sem hann lifði í, á það þarf eg því síður að minnast, sem þessi fjölmenni sorgarsöfnuður er talandi vottur um það, hvernig virðing og elska fylgdu honum í lífinu, og fylgja honum nú til grafarinnar. Já, lengi mun þetta byggðarlag sakna hins framliðna, því hann leitaðist við, að efla heillir þess í orði og verki, og varla kom hjer nokkurt það vandamál fyrir, að ekki væri um það leitað hans viturlegu ráða. En auk hins almennara sveitarfjelags, er til annað fjelag vina og kunningja, og sá framliðni átti marga vini, þó hann ekki væri allra vinur í orðsins venjulegu merkingu, og hann var trúr og tryggur, ráðhollur og staðfastur vinur, og hve margir leituðu ekki ráða þessa vinar, og beiddu hann fyrir, að hafa eptirlit með ekkjum sínum eða börnum, ef þeirra missti við, og sýndu með því, að þeir treystu honum bezt allra manna, og hann brást þeim aldrei, heldur var þeirra stoð og stytta til

dauðadags. Þess vegna mun og faðirinn á himnum, hann, sem er faðir ekkna og föðurlausra, halda sinni verndarhendi yfir hans syrgjandi ekkju og munaðarlausu börnum.

Svo er hjer þá genginn til hvíldar einhver hinn mesti og merkasti höfðingi þessa lands, hann, sem var huggun og yndi ástvinanna, stoð og aðalathvarf náunga sinna, sómi embættisstjettarinnar, og prýði fósturjarðar vorrar, og eins og þetta guðshús er nú sveipað dökkum sorgarblæjum, eins eru líka hjörtu vor vafin söknuði og trega. En með því vjer stöndum hjer í guðshúsi, þá minnir það oss á, að lypta huganum út yfir gröf og dauða upp til guðs, upp til ljóssins og sælunnar himnesku bústaða; þangað er önd hins framliðna farin, og dómarinn stendur nú frammi fyrir dómara sínum og vor allra. Æ, allt mannlegt rjettlæti er ljettvægt á metaskálum hins eilífa rjettlætis. En hinn eilífi dómari er líka eilífur miskunsemdanna faðir, sem með nærgætnu föðurauga lítur á vora veiku krapta, á stríð vort og baráttu, og því er hver sá, sem óttast hann, og gjörir hvað rjett er, honum þóknanlegur, og fær í dauðanum að heyra þessi huggunarríku orðin: „Gakk inn í fögnuð herra þíns“. Inn í þennan eilífa fögnuð ertu genginn, sæli framliðni bróðir, og finnur þar þá ástvini, sem á undan þjer eru gengnir. Æ, vjer vonum einnig fyrir guðs náð að fá að komast þangað, og það innan lítils tíma, því þessi vor æfiár líða skjótt, og vjer erum á flugi.

Leggðu oss, drottinn, lið og krapta til þess, að þreyta flugið um þennan eymdar og tára dal á vængjum vonar og trúar upp til þíns himneska dýrðarríkis. Bænheyr það í Jesú nafni. Amen.

---

# V.

## Við jarðarför ekkjufrúar
## **Valgerðar Jónsdóttur,**

27. d. maím. 1856.

---

„Allir dagar eiga kveld um síðir“, og þannig er einnig lífi voru varið, því það samanstendur af vissri dagatölu, sem oss eru úthlutaðir af drottni, sumum fleiri, sumum færri; en hvort sem þeir eru margir eða fáir þessir vorir æfidagar, þá líða þeir þó allir, og eru einatt liðnir, áður en oss varir; og þegar vjer á æfinnar kveldi lítum aptur yfir hina liðnu daga, þá eru þeir allir runnir saman í eitt í hinum mikla straumi tímans, og jafnvel hinn lengsti lífdagur þykir stuttur, þegar hann er liðinn. En þó líf vort sje stutt og stopult, þá er það þó mjög svo áríðandi, að verja því vel og samkvæmt tilætlun skaparans, því á eptir dauðans

nótt upp rennur aptur morgun, og á eilífðarinnar morgni verða vor eilífu kjör sett í nákvæmt samband við þetta vort liðna líf. Allar áminningar guðsorðs miða til þess, að fá oss til að gefa gætur að þessu sambandi milli tímans og eilífðarinnar, milli himinsins og jarðarinnar, og að því lýtur einnig sú áminning, að vjer, meðan vjer dveljum hjer á jörðunni, eigum að hafa vora umgengni á himnum. Enginn hefur eins berlega og vor guðdómlegi frelsari sýnt oss, hvernig þetta er mögulegt, því að í sínu jarðneska lífi lifði hann heilögu og himnesku lífi, og því gat hann, meðan hann dvaldi hjer á jörðunni sagt um sjálfan sig: „Mannsins son, sem e r á himnum“. En guðs börn leitast við að feta í fótspor frelsara síns, og því sjáum vjer einnig helgað og himneskt líf í þessu þeirra stundlega lífi, og það er fullt af fögnuði og huggun, að renna huganum yfir lífsferil þeirra manna, sem vjer með sanni getum sagt um, að þeir hafi lifað guði og haft umgengni sína á himnum, meðan þeir lifðu í þessum dauðans líkama, og vjer getum af fullri sannfæringu hjartans sagt um þá, að þó moldin hverfi aptur til jarðarinnar, þá fer þó andinn til guðs, sem gaf hann. Vjer stöndum því hjer hjá þessari líkkistu, ekki niðurbeygðir af sorg, eins og þeir, sem enga von hafa, heldur horfandi upp til himins með trúarinnar og vonarinnar augum, því vjer vitum, að hin helgaða sálin lifir á himnum, hvar hún áður hafði umgengni sína. Nú er þessi fagri og langi

lífdagur liðinn; hann varð að eiga kveld um síðir, eins og allir aðrir dagar, og á eptir kveldinu hlaut að upp renna dauðans nótt, en sú framliðna önd hefur aptur byrjað hinn eilífa daginn, þar sem þúsund ár eru sem einn dagur. Langur og fagur var lífdagur þessarar vorrar framliðnu sælu systur; langur var hann eptir þessum vorum jarðneska mælikvarða, því fæstum hlotnast að ná eins háum aldri eins og henni; og fagur var hann, hvort sem vjer heldur lítum til þeirra lukkunnar gæða, sem skreyta mannlegt líf og gjöra það glæsilegt í heimsins augum, eða til hinna andlegu fjársjóðanna, guðsóttans og manndyggðanna, sem eru fegri og varanlegri en allt annað. Drottinn gaf henni lán og lukkugæði í ríkulegum mæli; hann blessaði hana með upphefð og alls nægtum, og ljet það falla í hennar skaut, sem vera munu einsdæmi, að giptast tveimur biskupum þessa lands, og vera þeim sameinuð í margra ára ástúðlegu hjónabandi, og himnafaðirinn bætti því ofan á allar velgjörðir sínar við hana, að gæða hana með sjerlegu barnaláni, sem er einhver hin dýrmætasta ástgjöf drottins fyrir hið ástríka móðurhjarta. Það lítur því svo út fyrir mannasjónum, eins og lífsferill þessarar vorrar framliðnu systur hafi verið rósum stráður, og að lukkunnar blíða hafi brosað á móti henni frá vögg-unni til grafarinnar, eptir því sem frekast er auðið í þessu lífi, sem vant er að vera mæðu og mótlæti blandað, og verður mörgum sannkallaður tára-

dalur. En lán og lukkugœði verða þeim einum til sannarlegrar gæfu og blessunar, sem rjettilega kann að meta þau, sem skoðar þau eins og náðargjöf guðs, og leitast við, að verja þeim eptir gjafarans gœzkuríka tilgangi, og einmitt þess vegna er það svo gleðilegt, að láta hugann dvelja við lífsferil þessarar vorrar sælu systur, að vjer sjáum, hvernig guðsóttinn og gæfan, manndyggðirnar og meðlætið hjeldust hjá henni svo fagurlega í hendur, og hvernig á henni rættist einnig í þessu tilliti, að þeim, sem guð elska, verða allir hlutir að þjena til góðs. Það er vissulega fögur sjón, að sjá sannkristinn mann bera mœðu og mótlæti þessa lífs með kristilegri þolinmœði og undirgefni undir guðs vilja; en það er ekki minna varið í hitt, að bera meðlætið vel og kristilega, því það þurfa sterk bein til að þola góða daga, og margir þeir, sem hraustlega báru krossins byrði, fjellu til ofmetnaðar, þegar þeim fór að leika allt í lyndi; þeir gleymdu þá gjafaranum allra góðra hluta, og gáfu sjálfum sjer dýrðina. Fagur er því lífsferill vorrar framliðnu systur, því hann er ljós vottur um það, hvernig þessi stundlegu gœði verða að gjöfum guðlegrar náðar og breiða blessun sína út yfir mannlegt líf, þegar þau hlotnast góðum og guðelskandi sálum. Öll hennar æfi er skreytt guðhræðslunnar og kvenndyggðanna beztu og fegurstu blómum, sem spruttu upp af trúarinnar og kærleikans rót. Sem nákvæm og ástrík kona, sem elskuleg móðir og sann-

kristin gegndi hún verki sinnar köllunar með ó-þreytanlegri árvekni og óviðjafnanlegri skyldurækt. Hvernig báðir ektamenn hennar voru virtir og heiðraðir utan lands og innan, og hvernig minning þeirra lifir í blessun, er öllum kunnugt, en hitt er heiminum ekki eins kunnugt, hversu mikinn þátt góð kona á í heiðri mannsins, hvernig hún með ástúðlegri umgengni, með stöðugri geðstillingu, nákvæmni og blíðu getur gjört manni sínum uppfyllingu skyldunnar ljúfa og ljettbæra og allt hans líf ánægjulegt og unaðarfullt. Og mun nokkur kona hafa tekið vorri framliðnu systur fram í þessu? eða mun elska til barna sinna hafa verið heitari og innilegri hjá nokkurri móður? mun nokkur móðir hafa látið sjer meir annt en hún um, að auðga þau að menntun og alls konar manndyggðum? En eins og hún sem kona og móðir tók flestum fram, eins mun hún sem sannkristin hafa átt fáa sína líka, þó það sje auðvitað, að guð á sjer margan góðan. Með óraskanlegri geðstillingu, kristilegri hógværð og lítillæti og mannelskufullri breytni við skylda og vandalausa ávann hún sjer virðingu og elsku allra, sem hana þekktu. Hjúum sínum var hún sannkölluð móðir, og bar eins nákvæma umhyggju fyrir þeim, eins og þau væru börn hennar; já, allir, sem komu á hennar góðfræga heimili, gátu af hjarta kallað hana móður sína, og enginn gat farið þaðan aptur, án þess að heiðra hana og elska; það hlaut hver að finna, að gestrisnin og velgjörðasemin spruttu

ekki hjá henni af fordyld, eða til að ávinna sjer lof hjá mönnum, heldur af kristilegri mannelskurót; það hlaut hver að finna, að hún átti líka sinn þátt í að gjöra garðinn frægan, að hún var prýði mannsins, og sómi þeirrar háu stöðu, sem drottinn hafði sett hana í. Og hver mun nú þerra tárin af kinnum hinna mörgu, af kinnum allra þeirra aumingja og fátœklinga, sem hún fram í andlátið rjetti örláta hjálparhönd? eða hver mun nú líkna þeim með öðru eins lítillæti, með annari eins hjartagœzku og hluttekningu í þeirra kjörum? En eg þarf því síður að lýsa manndyggðum þessarar vorrar framliðnu systur, sem þær eru öllum kunnar, og það var svo fjærri hennar skapi, að hafa þær til sýnis, að eg óttast fyrir, að það kynni einnig að vera ósamkvæmt hennar kristilegu auðmýkt, að fara um þær mörgum orðum, jafnvel á þessum helga stað; eg óttast fyrir, að hún kynni að segja: „Enginn er hreinn í drottins augum; enginn er góður nema guð einn“. Að vísu er það satt, sæla framliðna systir, að í augum hins heilaga og alskyggna er enginn maður hreinn, að í augum hins algóða og alfullkomna erum vjer allir syndugir og ófullkomnir; en fyrir mannasjónum varst þú lýtalaus og góð, og því er það skylt, að minningu þinni sje lengi haldið á lopt á meðal vor. Já, meðan kvenndyggðir verða nokkurs metnar hjá oss, meðan það verður nokkurs metið, að vera góð kona, góð móðir og sannkrístin, þá mun það jafnan verða haft í

minnum, hvílík merkiskona þú varst. Eg hætti nú að tala um mannkosti þína; en þó eg þagni, þá mun þó þitt kristilega líferni og þinn kristilegi undirbúningur undir dauðann lengi tala, tala til vor og niðja vorra um það, að hvorki líf nje dauði megnar að skilja þá við guðs kærleika, sem hann elska, tala til vor og þeirra um það, að vjer eigum að hafa vora umgengni á himnum, svo vjer getum höndlað hið eilífa lífið, og fáum við enda þessa vors jarðneska lífs inntöku í drottins himneska dýrðarríki.

Æ, góði himneski faðir, láttu þann sannleika jafnan standa oss lifandi fyrir hugskotssjónum, að allir vorir dagar eiga kveld um síðir, og gefðu oss náð til þess, að dœmi þessarar vorrar framliðnu systur, að vinna trúlega, meðan dagur er; þá munum vjer einnig á æfinnar kveldi gegn um grafarinnar og dauðans myrkur sjá þína náðarsól skína á eilífðarinnar himni, og öðlast þá sælu, sem ekki hefur auga sjeð, ekki eyra heyrt, og í einkis huga komið, í eilífri sambúð við þig og vorn frelsara og alla þína útvalda. Bœnheyr oss, gœzkuríki faðir, í Jesú nafni. Amen.

# VI.

## Við jarðarför prófasts sjera
## **Hannesar Stephensens,**

21. dag októberm. 1856.

---

Þú, drottinn, sendir stundir gleðinnar og stundir sorgarinnar, þú sendir oss blítt og strítt, og vilt með því kenna oss, að treysta þjer einum og beygja oss undir þinn blessaðan vilja. Æ, gef þú oss náð til þess, að geta tekið hverju því, sem þú lætur oss að höndum bera, með kristilegri stillingu og jafnaðargeði. Gef þú oss einnig náð til þess á þessari sorgarstundu, að geta leitað huggunar í þínu orði, og sendu þinn anda niður í hin harmþrungnu hjörtun, svo þau trúi því og treysti, að þegar þú hjer slítur hin viðkvæmu ástarböndin, þá er það til þess, að sameina þau aptur í sælli bústöðum, svo þau jafnvel mitt í sorginni geti vegsamað þitt heilaga nafn. Bænheyr það í Jesú nafni.

„Ekki er lán lengur en ljeð er“, og að láni höfum vjer þegið öll þessi jarðnesku gæði, auð, völd og álit, og sjerhvert ágæti lífsins. Vinir og vandamenn, og allt, sem vjer hjer í lífi unnum hugástum, það er oss að eins ljeð um lítinn tíma, og hrifið úr höndum vorum og hjörtum, þegar minnst vonum varir, og þá höfum vjer ekki annað eptir en endurminninguna, sorgina og söknuðinn, tregann og tárin. Já, hvað er líf sjálfra vor annað en lánsfje, sem vjer verðum að skila aptur,

þegar dauðinn heimtar það; og hans bjóðandi röddu hljótum vjer að hlýða, hvernig sem á stendur, hvort sem oss er það leitt eða ljúft, hvort sem vjer erum ungir eða gamlir, ríkir eða fátækir, voldugir eða vesalir. Þannig rennur allt hið stundlega fram í dauðans djúp, og gröfin hylur það allt í faðmi sínum. Það er til vonar, þó þessar hugleiðingar um óstöðugleika þessa lífs og fánýti allra tímanlegra hluta hreifi sjer í hjörtum vorum, þegar vjer fylgjum framliðnum meðbræðrum vorum til grafarinnar, og ekki sízt, þegar vjer fylgjum þeim mönnum þangað, sem voru ástvina sinna unaður og gleði, stoð og stytta þess fjelags, sem þeir lifðu í, og sómi og prýði sinnar stjettar. Og hve nær, ef ekki nú, munu slíkar hugleiðingar vakna? hve nær, ef ekki nú, munu sorgar og saknaðar tilfinningar hreifa sjer í hjörtunum, ekki einungis ástvinanna og hinna nánustu náunga, heldur og í brjósti allra góðra Íslendinga; því vjer fylgjum nú þeim manni til grafarinnar, sem var þjóðkunnur, og sem aldrei var getið nema að góðu. Já, svo langt, sem byggðir þessa lands ná, mun fregnin um lát prófasts sjera **Hannesar Stephensens** vekja söknuð og trega; og það er ekki kynja, því hjer er eptir miklum manni að sjá, sem, þegar á allt er litið, átti fáa sína líka hjer á landi.

Mannkostir þessa merka höfðingja eru svo þjóðkunnir og endurminning þeirra svo lifandi í allra viðstaddra hjörtum, að það væri óþarfi fyrir

mig, að fara um þá mörgum orðum, með því mjer væri líka ofvaxið, að lýsa þeim til fulls. En þar eð virðing fyrir hinum framliðna hefur leitt mig hingað, þá sje mjer leyft, að láta virðingu mína fyrir honum í ljósi, og þetta get eg ekki, án þess með fám orðum að minnast á þær manndyggðir hans, sem mjer voru kunnar, bæði af eigin þekkingu og afspurn þeirra, sem nær honum stóðu. Atgjörvi sálar og líkama, höfðinglegt og góðmannlegt yfirbragð, blíðlegt og glaðlegt viðmót, þetta voru þeir eiginlegleikar, sem hlutu að vekja virðingu fyrir hinum framliðna í hjörtum allra þeirra, sem hann sáu, og þessi virðing hlaut að vaxa, eptir því sem menn kynntust honum betur, og sannfærðust um, að þetta glaðlega og mannúðlega viðmót átti sjer rót í gæzku og blíðu hjartans. Og hafi nú jafnvel lausleg viðkynning hlotið að vekja virðingu fyrir honum í hjörtum allra þeirra, sem hann sáu og höfðu tal af honum, hvað má þá ætla um hina, sem þekktu hann betur, og vissu, hver maður hann var, bæði í heimilislífinu og í fjelagslífinu? Æ, sorg og söknuður eptirþreyjandi ekkjufrúar lýsa því bezt, hve ástúðlegur, tryggur og blíður ektamaki hann var, hvernig hann bar með henni blítt og strítt, og unni henni hugástum fram í andlátið. Eins og hann var ástríkur og viðkvæmur ektamaki, eins var hann líka góður og ástúðlegur faðir barna sinna. En himnaföðurnum þóknaðist, að reyna hann með því, að kalla þau burt hjeðan á undan

honum, og nú seinast gáfaðan og gjörvulegan einkason, og má nærri geta, hve sárt hans viðkvæma föðurhjarta muni hafa fallið þessi missir, þó hann bæri hann með kristilegri stillingu og þolinmæði. Hann var ástríkur faðir, ekki einungis sinna barna, heldur og þeirra barna, sem hann hafði alið upp og gengið í föðurstað, og þessi börnin elskuðu hann líka eins og bezta föður, og finna nú til þess með sárum trega og söknuði, að þau eru svipt hans nákvæmu umsjón og föðurlegu handleiðslu. Hann var faðir allra sinna hjúa, allra, sem dvöldu á hans góðfræga heimili, hann var húsfaðir í þessa orðs beztu og fegurstu merkingu. Og mun nokkur vera sá í þessum fjölmenna söfnuði, sem ekki játi, og játi það af hjarta, að hann var sannkallaður faðir allra sinna sóknarbarna, ekki einungis sem kennifaðir og sálusorgari, heldur sem leiðtogi þeirra og velgjörðafaðir í tímanlegum efnum? Eins og hann var þjóðkunnur að einstaklegri rausn og frábærum höfðingskap, þannig var hann og stoð og stytta þessa sveitarfjelags, bjargvættur í þessu byggðarlagi, því drottinn hafði bæði gefið honum til þess mátt og vilja; hann hafði gefið honum nœg efni, og vilja, til að verja þeim vel. Efnin og atorkan, ráðdeildin og höfðingslundin, allt var samtaka í því, að gjöra hann að ógleymanlegum velgjörðaföður þessa sveitarfjelags. Hann sýndi það jafnan með ráðum og dáð, í orði og verki, að hann hafði gjört það að einhverju hinu helzta marki og miði lífsins, að styðja og efla

velmegun og framfarir þess fjelags, sem hann lifði í, að styðja og efla almenningsheillir. Það er kunnugra en frá þurfi að segja, hvern þátt hinn framliðni í mörg undanfarin ár tók í flutningi þjóðmálefna vorra, hvernig hann, frá því almennur áhugi á þessum málefnum fyrst fór að vakna hjer í landi, leitaðist við að glæða þennan áhuga, með því að hvetja til samtaka og opinberra mannfunda, hvernig hann gjörðist oddviti þeirra funda, sem í þessu skyni hafa verið haldnir á Þingvelli, og stjórnaði þeim með hinni mestu ráðdeild. Það er kunnugra en frá þurfi að segja, hvílíkt álit hann sem þjóðkjörinn þingmaður ávann sjer á alþingi fyrir frjálslyndi og föðurlandsást, og hvílíkan þátt hann átti þar í undirbúningi og afgreiðslu hinna mikilvægustu málefna. Það er kunnugra en frá þurfi að segja, með hvílíkri alúð, málsnilld og lipurleik hann á þessu þjóðþingi vor Íslendinga fram fylgdi hverju því, sem að hans áliti miðaði til heilla-eflingar fósturjarðarinnar, og hvernig hann með þessu ávann sjer það traust þingmanna, að hann á seinasta þingi var kosinn fyrir forseta þingsins, en áður fyrir varaforseta þess. Þetta er allt svo þjóðkunnugt, að á það þarf ekki hjer að minnast. Já, föðurlandsást hins framliðna var svo alþekkt og reynd, að nafn hans er runnið saman við sögu Íslands, og verður ekki frá henni slitið, og árbækur Íslands munu lýsa því á hinum komandi öldum, að hann var einn af þess beztu og merkustu sonum. Það er því ekki furða, þó skyldir og vandalausir

standi hjer harmþrungnir og hnuggnir, því þeir finna allir til þess, að því meiri og merkari sem hinn framliðni var, því þyngri og óbætanlegri er missirinn; þeir finna allir til þess, að þeir hjer í lífi eru sviptir hans návistum, að nú er sú höndin stirðnuð, sem ætíð var útrjett, til að líkna og hjálpa hinum bágstöddu, og til að styðja hvert þjóðlegt og þarflegt fyrirtæki, að nú er það auga brostið, hvaðan hjartans blíða og brjóstgæði skein, að nú eru þær varir fölnaðar og sú röddin þögnuð, sem svo opt talaði kærleikans orð til ástvinanna, orð friðarins og huggunarinnar hjer í helgidómi drottins, og hin fjörugu frelsisorð á hinum þjóðlegu mannfundum vorum. Já, sú tilfinning er nú lifandi hjá oss öllum, að þetta líf er hverfult og stopult, að það er herfang dauðans og grafarinnar. En eigum vjer að láta hugann nema þar staðar? Eigum vjer að syrgja eins og þeir, sem enga von hafa? Nei, til þess er þessi sorgarskari genginn hingað í drottins hús, að vjer lyptum huganum út yfir gröf og dauða upp til h a n s, sem er herra lífsins og dauðans, að vjer skoðum lífið og dauðann í ljósi trúarinnar, sem með geislum sínum tvístrar dauðans og grafarinnar myrkrum. Hjer í þessu drottins húsi boðaði þessi vor framliðni bróðir lærdóminn um hið eilífa lífið í Jesú Kristi vorum frelsara; hjer talaði hann orð huggunarinnar til hinna syrgjandi, sem stóðu grátandi hjá gröfum ástvina sinna, og benti þeim út yfir gröf og dauða til hins eilífa lífsins. Ættum vjer þá ekki einnig

nú við burtför hans hjeðan að leita oss huggunar í guðsorði? Ættum vjer ekki að láta það minna oss á, að það er drottinn, sem hefur kallað hann hjeðan, og að drottins vegir eru einber miskun og trúfesti? Eða eru það einungis sorgartár, sem vjer eigum að fella við burtför guðhræddra ástvina? Eiga ekki sorgartárin að vera blönduð þakklætistárum, þakklæti við drottin fyrir líf hins framliðna vinar, og vonarinnar tárum, þeirrar vonar, að himnafaðirinn muni láta hið góða, sem hjer var gjört, bera ávexti til eilífs lífs, að hann við enda þessa hverfula og stopula lífs kalli hvern þann, sem honum reynist trúr, til eilífs lífs og eilífrar sælu, og að vjer, þegar vort tímaglas er út runnið, fáum aptur að sjá vora guðhræddu ástvini á landi lifanda?

Svo þökkum þá drottni fyrir líf þessa merka framliðna bróður, og geymum minningu hans í þakklátum hjörtum og í heiðri. Hann vann trúlega, meðan dagur var, og er nú genginn til hvíldar eptir erfiði dagsins, genginn inn í fögnuð herra síns. Kappkostum að lifa svoleiðis, að vjer einnig megum deyja sáluhjálplegum dauða, og fá inntöku í guðs himneska dýrðarríki, nær honum þóknast að kalla oss hjeðan.

Þetta sje þá huggun vor allra á þessari sorgarstundu; það sje huggun allra syrgjandi ástvina hins framliðna; það sje huggun yðar, sem hann hafði tekið að sjer og gekk í föðurstað. Æ, það er von þjer syrgið lát þessa yðar bezta vel-

gjörðaföður; en hugsið til þess, að þjer eigið föður að á himnum, sem er faðir allra föðurlausra, og sem einnig er yðar faðir, þegar þjer ástundið, að vera hans börn. Heiðrið jafnan minningu þessa yðar burtsofnaða velgjörðaföður, með því að heiðra yðar velgjörðamóður, með því að vera henni til yndis og gleði. Og þjer, háttvirta syrgjandi ekkjufrú, hvað get eg sagt yður til huggunar og harmaljettis? hvað nema það, sem ætíð hefur reynzt huggunin fyrir hin sorgbitnu hjörtun, að þetta eins og allt, sem oss mætir, er skeð að ráði og vilja þess algóða föðursins á himnum, og að allt, sem hann lætur oss að höndum bera, er hans börnum fyrir beztu? Eg finn til þess, hvað þjer munið hafa að bera; eg get getið því nærri, hvernig dauðinn muni hafa sært hjarta yðar með því, að slíta hin viðkvæmu ástarböndin, eitt á fætur öðru. En eg er líka sannfærður um, að drottinn hefur gefið yður það sálarþrek, sem útheimtist, til að bera sorgina kristilega; og vissulega er það inndæl tilhugsun mitt í sorginni, að endurminnast þeirra mörgu gleðistunda, sem drottinn leyfði oss að dvelja hjá ástvinum vorum á umliðna tímanum, og vita, að minning þeirra lifir í blessun. Vissulega hlýtur þetta að vera mikil huggun fyrir yðar sorgmædda hjarta, þegar þjer jafnframt rennið huganum fram á leið, og hugsið til sælla samfunda við yðar burtsofnuðu ástvini, hugsið til þess, að þeir bíða yðar í betra heimi, og munu fagna yður þar í eilífri og sælufullri sambúð.

Guð allrar huggunar virðist af náð sinni að hugga yður með sínu orði og sínum anda. Hugga þú, drottinn, alla þá, sem hryggðin slær, hvort þeir eru nær eða fjær, því hvergi nema í þjer einum er huggun og frið að finna. Virztu að senda þessum söfnuði góðan og árvakran hirði í stað þessa þíns trúlynda þjóns, sem þinni eilífu speki hefur þóknazt að kalla hjeðan, og láttu hans dœmi hvetja oss, hvern í sínum verkahring, til að efla andlega og tímanlega heill fósturjarðar vorrar í þínum ótta, og vora eigin sáluhjálp með ótta og andvara. Amen.



